# Ljóda
# Smámunir,
samt
# Emilíu Raunir,
af
Sigurdi Breidfjørd.

## Annar ársflokkur.

Opt eru kvæda efnin rýr,
ekki á stundum parid. J. S.

Seljast óinnbundnir á Prentp. 32 ß. S. M.

Videyar Klaustri, 1839.
Prentadir og útgéfnir af Bókþrykkjara
Helga Helgasyni.

Til

## Madme G. Sk. Sveinbjørnssonar á Nesi.

Andsima, vitra Vina mín!
Vogun er þad, ad Smámunina
eg leidi fram fyrir augu þín,
ad efnum, styrk og fjori lina.
Þiggi nú samt þinn þánki frór
þad smáa, eg hef fram ad bera!
Þú veitst, ad einginn er sá stór,
án þess hann lítill kunni ad vera.

S. Breidfjørd.

# Ástkæru Landar!

Hér vogar sér fram fyrir sjónir ydar annar hluti minna Ljóda-Smámuna, í trausti þess, ad margir ydar tóku med vinar hendi móti hinum fyrsta og létud hann njóta þeirrar hamingju ad verda hugþekkann skapi ydar; samt var hann af útgefurunum ekki nærri svo vel af hendi reiddur sem skyldi; og eg hafdi áskilid, vegna óreglulegrar prentunar; því þegar prenta skal ljódmæli, fer midur, ad rugla saman hljódstøfum og samhendum, eins og í sundurlausri rædu, einkum í vøndum og óþektum løgum, því þá getur lesarinn ekki þrautalaust fundid en réttu løg eda meiningar.

Sá, sem til hefur verid feinginn ad leidrétta prófarkir ens fyrsta flokks Smámunanna, hefur líka sett þannig allvída

Málsgreina merkin og klausu teikn, að ekki er mögulegt sumstaðar að finna þá meiníngu í orðunum, sem eg í öndverðu vildi hafa fram sett. Þessi óheppni fyrstu Smá-munanna minna verður nú ekki að sinni bætt, og skal því ekki þar um fara fleirum orðum; enn hitt er ætlun mín, að þessi flokk-ur sem hér birtist, verði að öllu; hvað prent-un snertir, betur af hendi leystur, þótt eg ekki viti hvörjum dómi innihald þeirra muni mæta; fel eg það á vald Landa minna góð-fýsi, sem sjálfir munu unna því, sem þeim þykir þess verdt, hvurt heldur það kémur frá minni eða annara hendi. Verði nú þessi Smámuna hluti svo heppinn að á-vinna sér þokka enna betri manna, má vera að eittsinn birtist þeirra þriðji og síðasti part-ur, svo af þeim öllum í sambandi gæti orðið hæfilega stór Bæklíngur, þeim er eiga vildu.

Auðmjúkast

S. Breiðfjörð.



# Um Eyafjalla = jökul
## 1 8 2 5.

1. Ovanur orðsnildar løgum
eg (því að tíðin er laung)
með dimmum og dynjandi sløgum
drynja læt hørpunnar saung.
Í hreiðrunum hræfugla og varga,
við hrinur og ólæti bjarga
stilla þá skjálfandi streingi eg vil,
þar straumarnir buldra við nið=dimmu gil.

2. Þér, sem með dáfríðum dansi
dillandi framþýðið lag,
veit eg að stirðið í stansi
á stirðan og skjáfandi brag.
Mitt lag eru lárgvedra hrinur,
minn leikur við brim sjáfa drynur
mitt efni er hræðsla og sárasta sorg,
mitt samkvæði hræfugla titrandi org.

3. Þú, sem af þrymjandi fjøllum
þoku og eldi fram slær:
þú sem af ódæmum øllum
aldrei þinn jafníngja fær:
þú, sem ad hrekur og hrædir
hvad eitt. sem náttúron fædir:
þá skalt mitt efni, þitt øskur minn tón,
undrunarverda og skelfandi sjón!

4. Svo er þín tilveru saga:
þeir synir, er átt hafdi Bør
ádur í árborna daga,
Ymi þeir skildu vid fjør.
Í audnur af alheima stædi
útheltist jøtunsins blædi[1]),
af þessu vard sjór, en af þjósunum jørd
þá, og af beinunum grjótfjøllin hørd[2]).

5. Ymi þá útslapp af hvopti
andi, sem fyrri þar bjó
(þrumdi í þúngbúnu lopti);
þeisi í skíhnetti fló
sem leiptur í ókunnar áttir,
ekkért þó skjól finna mátti;

---

[1]) Hér er blædi sett fyrir blód, eins og menn segja flædi fyrir flód. [2]) Sjá hérum Snorra Eddu 10. dæmisøgu.

því Hræsvelgur jötun nam hrinda sér frá,
hásætið nýlega búinn að fá.
6. Byggir í botnlausum geimi.
bálgyðjan Eimyrja há,
bjørgum og blýþúngum heimi
bakinu lyptir hún á.
Flegdunnar andi er eður,
sem ógnum og fádæmum veldur;
úr augunum logar því bálið svo bjart,
brædir það fjallanna megin alhardt.
7. Hrakinn og ángradur andi
Ymis, sem sveimadi hvar [1]),
vængina þángað til þandi,
sem þrømin á jørdunni var;
veltist í audnur án enda,
í Eimyrju skauti nam lenda;
andann sú gleypti í opnaðan kvið;
af því vard fóstur, og lifnadi við.
8. Fóstrinu, í forsugu skapi
þá fædt hafdi módirin verd,
skaut upp úr Ginnúngagapi [2]),
og gegnum þá skøpudu jørd
upp kom í Eyfjalla tindum,

[1]) Þ. e. alstadar. [2]) Ginnúngagap var audn sú, hvar í fólgid lá sambland hluta þeirra er skapast attu.

okadi skalla mót vindum,
hálfur í skýum og hálfur í sjó,
hrímþussi ljótur í fjøllunum bjó.
9. Nakinn, med náttdaggar hrími
Niblheima afkvæmid stód;
hærdist þá heili úr Ymi,
ad hressa hid nýborna jód;
bleikhvítum blæjum útstrádi,
byrgja þad jøtuninn nádi;
þyknadi hamur, en hækkadi tind,
harnadi af klaka og nordfjalla vind.
10. Í hrímgráum hami svo stendur,
hækkar ópt brúnir og tind,
hann hrædist ei fár eda fjendur,
hann foraktar skruggur og vind;
hann lætur bylja á búki,
þó bjørgin, sem smádrífa, rjúki;
þó himnarnir brotni og brenni øll jørd,
hann brynjunni treystir, og nóg er hún hørd.
11. Á skalla hans þjakadar þrotna
þrumur med átøkin sterk;
magnlausir brimsjóir brotna
vid brjóstin á ísklæddum serk.
Náttlirafnar fløktandi fælast,
þeir fá ekki skjól hér ad bælast;
í dimmustu gljúfrum ei dag er ad sjá,
dunandi straumar þar belja og slá.

12. Svitnadur sárköldum regnum,
Saungdís! eg kalla þig á;
hremdu mig hjartad í gegnum,
heiminum ryktu mér frá!
Sýn mér þau undranna undur,
þar eldfjallid brestur í sundur!
Ljádu mér túngu, sem afmálar allt!
ef þú ert máttug, mig heyra þú skalt!
13. Nú lætur landvættur fjalla
logandi uppspringa gin,
hristir svo heimana alla,
ad hræðist allt lifandi kyn.
Med þrálátum þrumum hann sýngur,
þrútnar upp jørdin og springur,
hamrarnir skjálfjandi hrynja á lód,
hellast úr elfunum botnlausu flód.
14. Þrádbein í himininn háa
hrímgrá sér þoka uppslær,
stinjandi sterkvidrid þráa
stólpa þann beygdan ei fær.
Ostjórnar eldar sér brenkja,
alsberan himininn sleikja;
skelfjur allt, jørdu sem skapad er á,
skepnurnar tryllast vid eldfjøllin há.
15. Svitnar af heipt og af harmi
hamur, og brádnar því snjór;
af opnudum afgrunna barmi

útrennur fallandi sjór.
Hafið því við mundi velgja,
vatnsfellin mikiu að svelgja;
landinu bygjurnar falla í frá,
fela sig hinar, er kvikna í sjá.
16. Öskrar í eldanna kýngjum
óvættur fjallanna hátt;
øsku í ófærum dúngum
útblæs af helvítskum mátt.
Einginn er óhættur staður,
eirðarlaus verður hvørr maður;
af dimmviðri svørtu og drynjandi nið
Djøflar og svartálfar haldast ei við.
17. Sólin um dimmviðra daginn
dregur øll ljósin í skjól;
um hádegi húngur í ægian
hnípin og skjálfandi sól.
Einginn í austri sæ líta
árbrún af deginum hvíta;
um mánann sig hríngvefur møkkur um nótt,
myrkurin hilja og ógna því drótt.
18. Skal þá eldur og eisa
umvelta himni og jørð,
og flóðin, sem fallandi geysa,
fjallanna kollvæta borð?
Eða mun allt vera að þrotum
í alheima síðstu fjørbrotum?

Storknar í ædum mitt ískalda blód;
vid umþenkíng slíka því bresta mig hljód.

---

## Nordri og Sudri.

1. Seg þú þad, Idun alsvitandi! Od-gydjan mín, hvør hætta standi, málud hér fyrir morgun-sjón; hvørjar eru þær miklu myndir, med hvørra fylling loptid syndir, fljúgandi skrimsli, frá'ri enn ljón?

2. Bædi med trjónum, hala og hausum, höndum og fótum reglulausum, fljúga og skríða fram um lopt. Hvad munu öll þau ódýr heita, í óskapanir svo limum breyta? flýgur svo hvørt á annad opt.

3. Þad er hann Sudri, vørdur vinda, sem vofur þessar ér ad mynda; hann á ad fara ad heya stríd. Nordri vill hann úr ríki reka, og ramaukna fylkíng slíkra dreka. Vid skulum á þad horfa um hríd.

4. Sudri konúngur sig í skyndi, setur á efsta jøkul-tindi, tignarsæti þad eitt hann á; høfudid undir himni beygir, því hærra fær hann litid eigi; rúmleifid þessu ráda má.

5. Høndum á jøkulstólinn stydur, steypir fótum ad sjónum nidur; brýrnar á kalli

bløſkra mér; þær eru eins og hamra hrygg=
ir, hrylli lega þar undir ſkyggir, ſvo ekki
grand til augna ſér.

6. Kinnarnar eru øſku=gráar, opin munn=
ur og naſir fláar, helſt eru þríſtnar herd=
arnar, 'þuſsinn er nærri þrí høfdadur, því
er þad meir enn lygaſladur, ſem gømlu kenna
Søgurnar.

7. **Sudri** bodum úr hvopti hvæſir,
Hafgýdjurnar til ferda æſir; þannig ſkulum
hans þýda mál: „Þér ægis børn og djúpa
„drottnar! dúrſtundir ydar veri þrotnar; fyr=
„ir mig ſkundid framm í ál.

8. „Voldugan ydar fødur finnid, á frænd=
„ſemi hann og vinſkap minnid, berid hon=
„um þau bodinn ſnør, ad hann oſs ljái
„lidſemd frída, lofdúngi, **Nordra**, móti ad
„ſtrída, ſem øll vill fæla fridar kjør.

9. „Ridur í djúpinn fer ſá fjandi, þó fremſt
„ſtríd á himni og landi, allteins verdur hann
„ólmur þar; ykkur kémur ad ógn og grandi,
„**Ægir** nema þar móti ſtandi, og full=
„hrauſtar hafi fylkíngar."

10. Nú ſtódu **Ægis** ýngſtu dætur, all=
ar níu á mjúkar fætur, framvíſar nóg, en
fá=kjænar; fødur ſinn vøktu á midjum morg=

ni, frá Mararbotni þá reis hinn forni, og höfudið fram í bylgjum bar.

**11.** Það er nú líka sýn að sjá hann, sámleitann, þrútinn, nasa fláann, móraudur, svartur, bleikur, blár; hrukkur um ennis-hnúkinn setti, höfudið upp úr sjónum rétti, marhálmur er hans höfuð hár.

**12.** Úr augum og nösum fellur froða, flæsir munnurinn kynjum boða, einasta birt-ist ásjánan; trodist þér, bylgjur, ofan á hann! því ekki lángar mig til að sjá hann, skelf-íngu þá, alskapadan!

**13.** Dæturnar honum bodinn bera, beyg-ja sig djúpt og lotníng gera; úrskurdinn fengu þennan þá: því vil eg kóngi, Sudra, svara: „eg sé nú hvørnig leikar fara, ødr-um hvørjum skal aðslod ljá."

**14.** Sudri þá boða buldrið frétti, brún-unum ekki mikið létti, framkallar nú sinn feikna her; hrúgadi saman háum trøllum Hrímþussa kyns á sudurfjøllum; sérhvør að strída sólginn er.

**15.** Prísetta fylkíng vørdur vinda, í voda hernum lætur mynda; hvør yfir ødr-um hrokar sér; góndu flughamir grimdar-knúnir Gnúpleitir fram á jøkla brúnir; søg-unni nú til Nordra fer.

16. Nú undan himin- nordur-hjara, ná-bleikar sé eg myndir fara, hrímþussa dreka ædi í; bólginn er há's og brjóst ad líta, bleikraudu sindri hvoptar spýta, um himin allar gjøra gný.

17. Þeir fergjast hvør á annan ofan, upp undir rjáfur Vinda stofan, full af því líkum fyrnum er; stjórnlausir þeir med øskri æda, allar lifandi myndir hræda; himin-inn. hvør med hríslu ber.

18. Þeir hrekja frá sér heidan daginn, hryllir upp jørd vid trølla slaginn. O hvør-ju sæta øll þau teikn! hér mega ord og hug-ir þagna; hvad sé eg fram um loptid dragna? hvada líkhamur! hvílík feikn!

19. Nú sér eg kemur **Nordri** gramur, nídsvartur, bólginn jøtunhamur, ætlar ad fylla allan heim; á fjøllonum endi lángur liggur, lángt upp vid himin nemur hrygg-ur; óskøpun mesta er á þeim.

20. Upp lýkur þussinn ógna munni, ann-ar skoltur vid sjáfar grunni Spýrnist, enn hinn vid himininn. Eg veit hann mundi meira gapa, mætti vor hnøttur sundurhrapa, álíkt og mikli **Ulfurinn**.

21. Ut úr hans gini øskur støkkur; **Eg-ir** skjálfandi þángad hrøkkur, fer honum

veita fælinn lið; á himni né jørðu ekkert eirir, sem andkaldan jøtuns blástur heyrir; í kuðúng øll jørðin kippist við.

22. Allt keppist við að hrapa og hrynja, hrópin í jørð og fjøllum drynja, landvættur ramba á reiði stól; hamrar þar saman hrynum dýngja, hvelfíngin øll má nauðug sýngja; hvørgi er friður, hvørgi skjól.

23. **Svartálfarnir** frá dimmu djúpum, djøflanna klæddir svørtu hjúpum, ryðja sér fram og æra allt; vitlaus þar orgar veðra bjálfi, veröldin øll á reiði skjálfi, sætið mun hljóta að víkja valt.

24. Þar sem á máttkar ógnir heyrast, allar sképnur á hæli keyrast; **Suðri með flokk sinn kominn er! O hvil þig, Norðri!** ofsa ligur, því ógnarlega grimman sigur Díar og Alfar dæma þér.

---

## Hallgerður Lángbrók.

1. Margur fær af litlu lof, og last fyrir ekki parið; þetta gengur þrátt um of, því er svona varið.

2. Þó menn annars þekki brest, og þyki

midur sæma, best er að hafa fátt um flest, og fordast hann að dæma.

3. Einn þó gángi illan veg, augum fyrir mínum, máske hann stríði meir, en eg, móti brestum sínum.

4. Hallgerði þeir hnýta að, af heimsku-legum vana; lesari gódur! þú veist það; þekkirðu ekki hana?

5. Lastmælanna lángan foss Leidist henni að bera, þó að nokkuð, eins og oss, áfátt kynni vera.

6. Nú má taka Njálu bók, og nýa ransókn gera; løstum ekki Laungu brók, látum svona vera!

7. Látum hennar líferníð Litið á í tómi; kannske einhvørr vakni við, og vægi hennar dómi.

8. Hún þó væri hefndægjørn, og hjartað nokkuð baldið, flestu held eg finnist vørn, ef fallega á er haldið.

9. Þegar dæma einhvørn á, oss það frædin letra, fallegt er að færa þá Flest á veg-inn betra.

10. Þorvaldur til bónorðs brá, blóma rós að fánga; nauðug mátti mærin þá, með þeim biðli gánga.

11. Skort hún varð að þola þá, því ei

sæma vildi, að vinnufólkið henni hjá, hvorað verða skyldi.

12. Beiddi hún því bónda sinn, bús að afla forða; henni gaf hann högg á kinn, og hafði slæmt til orða.

13. Þjóstólfur á Valda vann, við þá komst í færi; en aldrei bað hún um það hann, ángur mest þó bæri.

14. Að dauðans hafi búið bað Bónda svanni hraður, sagan ekki segir það, en sumra manna slaður.

15. Ektuð varð í annað sinn Eikin byrðar Grana; góðmennið hann Glúmur hinn, gekk að eiga hana.

16. Hvøit nam ødru ástir ljá: auðnu lýsti hagur; sá var hennar æfi á Yndis sumardagur.

17. Milli vina mestu kann Máske deila saka. Konu sína hendi hann Hægt nam eitt sinn blaka.

18. Konan beiddi Þjóstólf þá, þar til hlutast eigi; en hann nam Glúm til heljar slá Hætt á førnum vegi.

19. Hefndir framdi fóstra á Fljóð, og réði bana; þeßa væri þørf að gá Þeim, er níða hana.

20. Gunnar kappi festi frú, frænda

móti rádi; vini sínum Njáli nú Næst þær fréttir tjádi.

21. Forn í skapi þorna Þór Þar um spádi illa; sér óþektum svanna fór Sæmd-arordi spilla.

22. Bergþórshvols þá veitslan var Veitt med lítlu hóli, Hallgerdur var hrakin þar Hæversk burt af stóli.

23. Bergþóra med brígslin vest Beisku hreifdi sinni; Gunnar sjálfur mælti mest Móti konu sinni.

24. Margt svo fleira milli bar Menja fyrir ládum; bádar voru beiskyndar, og beittu hrekkja rádum.

25. Mjøg er vandt ad meta, hvad Mest hvør hreifdi pínu; hvørugri var heidur ad Háttalagi sínu.

26. Bergþóra nam byrja þó Brøgdin heiptar sinnu, þegar úr sæti sínu dró Sæmdar bóndans kvinnu.

27. Vída sagan vitni ber, þó væri bald-inn svanni, Gunnar hana virdti ver, en vænum sómdi manni.

28. Eins var þegar ósta sat A var gesta bordum; máli slíku Gunnar gat Gegnt med hægri ordum.

29. Grimd hans yfir bordum brann, en

betur mundi farid, í einrúmi ef hefdi hann Hana sneypt og barid.

**30.** Högg og smán þar hrepti sprund, horfdi á gesta lidid; þad var von í þúngri lund Þetta hefdi svidid.

**31.** Boginn þegar brostinn er, býdur hann fljódi sínu Fólulega: fá þú mér Fliksu úr hári þínu.

**32.** Meingjörd slíka man hún þá, og mótsögn þessu veitir. Svo réd Gunnar falla frá, frægsti madur um sveitir.

**33.** Eg um þad í efa geng, adsóknin þó bidi, ád brúdir hefdu bogastreng Búid til af lidi.

**34.** Hefdi Gunnarí hlíta þókt Höfuds snúid reisi, lokkinn mundi hann sjálfur sókt, og sýslad fátt um leysi.

**35.** Af þessu og ödru þykir hætt, því í sagna kverid Einhvorr hafi inní bætt, sem illgjarn hefir verid.

**36.** Gunnar dó, en Gerda slapp, gremju vann svo létta. Í kunníngsskap vid heitinn Hrapp Hún komst eptir þetta.

**37.** Vid hann nádi vísid kært Vina tryggdir binda, en fáum þókti vera vært, vid hann Hrapp ad lynda.

**38.** Sambúdin var sæl og gód; svona

gat hún verið! en maka þann við Markar flóð, misti konu hrerið.

39. Trúna helga tók hún þá Og tíða skikkun mæta; hvað sem hafði orðið á, með iðrun mátti bæta.

40. Lærði hún við elliár Alla skikkun betri. Í Laugarnesi liggur nár, landsins Biskups setri.

41. Nú skal ekki bletta blað Bøgum mínum fremur. Lasti menn og losi það, líkt og hvørjum semur.

---

## Fjølnirs rjómi, 1835.

1. Fjølnir er komin Fróns að vitja, hinu forni Ás, er þáði blót. Hann segist bjóða næktir nytja; nú er að taka gesti á mót.

2. Fram býður hann í fyrsta þætti Fjølmælgi sinnar eigið hrós; en, eins og treysti ei eiginn mætti, annara vill hann slokkva ljós.

3. Um uppruna jarðar útløgð klausa, þó athygli fengi lærðum hjá, Bændurna rekur ráðalausa Ritníngar sinnar orðum frá.

4. Vér þótt meinum, að vel sé ritin Viðeyar fræði og Skírnis mál, Sjolnir gjörir þau fyrirlitin, og fæla máské vill á bál.

5. Svo talar hann með Möllers munni Mikið um okkar daufu trú. Það er auðheyrt, sá kló sem kunni, Þótt kannské hafi skjátlað nú.

6. Biskup vorn þókti bresta trúna, sem bjóða þessum herra má; Blessun er það, hann breytist núna! bæta sig hinir smærri þá.

7. Svo kemur bréf af eigin anda, á hvørju lítið græða má, nema ósannað last um landa Lága og hærri nóg má fá.

8. Sigling hans okkur ekki varið Uppbyggir, þó að kaupum slíkt; því margir hafa milli farið, Mikið af þessu sagt og ýkt.

9. Hann vogar svo í hæl að bíta Hofðíngja okkar Vesturlands, reynandi til með lasti að lýta Lofsælu bókasmíðar hans.

10. Hann lætur þetta frá sér fara Flónslegri þeirri meiníng í: hann vill, að Sinn sig virði svara, en verða mun hønum trautt að því.

11. Ekki bætir hann Eggert Glói, á honum lítið verður feitt, þó að hann kvæði í kyrrum skógi Kjaptæði sitt um Ekki neitt.

12. Hvør mun í slíku fjasi finna Fróðleik, uppbygging, sannleikann? Nei, Eggert Glói má sér minna, Mollir, fisliðog skotthúfan!

13 Fram úr sér hefir Fjolnir kválið Fánýtra mála þýðíngar, en efnin hafa illa valið Ofsir penna ríðingar.

14. Vér viljum ei á Odinn trúa, sem ætri fræða náðum bót. Látum Rogvættur landið flúa, lastmælin hans ei vindum hót.

15. Því kveð eg nú til þessa ýður, sem þekking hafið ritum á: kvæðum við hann svo norður og niður, að Nástranda bæli gisti sá.

## Heilræði til Fjolnirs, 1837.

1. Mein er þeim, sem í myrkur rata, Og mega ei finna réttan stig; Aumur er sá, sem allir hata, Og aldrei veit að betra sig. Heilræði einginn honum ljær, Hamíngjan einatt þokast fjær.

2. Vesælings Fjölnir! víst þú sýnir Vina og hollra ráða brest, Audnunnar vegi einn þú týnir, Ad eigin tjóni því vinnur flest. Sjá þú þinn kropp og limalag! Það linost og horast sérhvørn dag.

3. Skylda mig því til þessa hvetur, þar hinir allir veigra sér, ef eg vissi þér eitt-hvad betur, af einlægni vil eg ráda þér. Heilræda án því heimur er, Hættulegasta synda skér.

4. Atvinna þín mun illa hlíta, annan verdur ad taka sid; aptan og framan ad þér hnýta Allmargir, sem þú fladrar vid. Eg veit, af skorti fædu og fjár Fléttar þú saman slíkar skrár.

5 Trúdu mér, þú ert tröllfjatladur; týndu því slíkri rúna gjörd! Vertu lángt heldur Vinnumadur, og vistadu þig í Borgarfjörd. Laglega slíkir lifdu þar, löndum og sér til hagsældar.

6. Einu gildir þó bak þitt bogni, og bogi sviti kinnum frá. Þannig má sér-hvørr Sultarkogni Sadning um vora tíma fá. Emhvørn bitann med æru þá Ofan í þig þú kant ad fá.

7. Eda ef þú í annan máta Una mætt- ir þar betur vid, Þig mætti enn í læri láta Hjá Leirkéranna Fyrirsmid, Til þess ad herda og hnoda Leir; því hressir og saddir gánga þeir.

8. Fjolnir minn! þú ert eins og adrir, sem ætla sér stórt, en heikjast vid. Þig vantar, til ad fljúga, fjadrir! Af fótunum hel'dur þigdu lid. Menn halda, jordin haldi þér, því herra margan húnstærri ber.

9. Hitt sér nú hvør med opnum augum, sem ofurlítid hefir vit, ad stolin nøfn frá daudu draugum Duga ei til ad prýda rit, Haldtu vid skírnar heitid þitt! hafa láttu hann Odinn sitt!

---

# Svar

## til Bjarna bónda á Siglunesi [1]).

1. Angrar mig, hvad sig illa bera All- margar frídu stúlkurnar; bedid hafa mig,

---

[1]) Bjarni orkti um búning stúlkna vorra vísu þessa: „O, hvad mín sæmd og rausn upp rís, Med rondótta svuntu úr Paradís, Og herdaklút himneskan, Gulldreginn er í hornum hann; Horfa munn Piltar á Þann.“

Bjarni, ad gera Brag þínum móti eitt-hvørt svar. Þær hafa mér med harmi sagt, þú hædist ad þeirra klæda drakt.

2. Eg þori ekki um þad ad efast, sem þú hefur sett í nýa skrá, ad himneskir klútar kunni ad gefast, og koma þadan ofan frá, Og seljast þadan med sama prís, og svunt-urnar úr Paradís.

3. Hvørr mun byggja þá stóru stadi, hvar stúlkna vefast svunturnar? því sídan Adam uppflosnadi, í eydi héldt eg væri þar. Frá þeim háttvirdta hródrar smid, hér þarf ad koma nóta vid.

4. Einn þig til bidja um þad gjørum, ef prísin nokkud vægur er, Og þú ert Faktor ad þessum vørum, Þær láttu rigna ofan hér. Ekki þarf nema eina skúr, innlendar til ad kæta frúr.

5. En þá máttu' ei hafa þad ad nídi, þó vorar meyar brúki slíkt, og lángi ad skrída úr lúsa hýdi, sem lengi hefur í sveitum ríkt, Þær hrósa sér betur hreinlátar, en hinar Odáms kindurnar.

6. Hvørt ætla mér sé nær, ad níða,

---

Vísur hans eru fleiri um þetta efni, sem eg nú ekki man, eda vil hér inn setja.

náttúru réttri eptir manns, eda fága og flikum príða, Fegurstu smíði skaparans? Og hvört mun betur ega við Upplýstra þjóða hátt og sið?

## Til Faktors G. Stephensens,

(Kaupmannahøfn 1832).

1. Ekki er við mig gæfan góð, gallí' er á öllum hogum; fer eg þá að laga ljóð, og leika mér að bogum.

2. Þér og mér til minnis fyrst, mætti koma að letri, hvornig eg hef hagað víst, í Hofn á þessum vetri.

3. Eingan bás eg marka mér, og má því víða aka; náttstað, þar sem nemur, er Nýtilegt að taka.

4. Hér þá kom til Hafnar fyrst, hjá henni Maungu Skotu, leigði eg mér ljóra víst, í litlu Reikningsgotu.

5. Flutti eg þángað sïsk og smér, sot og peníngana; hvað af þessu orðið er, að má spyrja hana.

6. Var eg þar um vikur fimm, vann svo burtu lánga; við mig tók að gjörast grimm Gráköllótta Mánga.

7. Elti mig úr intum rann, æfð á ljótann vána, Sama, arga ófrekjan; allir þekkja hana.

8. Minna vina milli flaug, mér til hnjóðs og skaða; á mig smán og lýtum laug lyddan forsmánaða.

9. Í Borgargötu brá eg mér, bú-stað til að fala (heim að sama brunni ber) brennivíns hjá sala.

10. Þar var optast ølteitið, ei nam kætin dvína; lystugt stundum lék eg við Landa og vini mína.

11. Stúlkan litla, hún Stína mín, stytti dægur líka; maklegt er eg minnist þín, mjúklyndasta píka!

12. Til mín kom hún ósport inn, að því varð mér gaman, því hún var aldrei harðleikin, hvað sem áttum saman.

13. Færði hún mér víst og vín, þó vas-inn borga megi, um hálsin á mér líka lín Lagði á hvørjum degi.

14. Leiðast fór mér lífið þar; lækkaði í mér rómur, þegar um jólin varð eg var, að vasinn minn var tómur.

15. Hérmeð náði húsbóndinn Hæst um skuldir kvarta; fékk hann bláa frakkann minn Með fløjelskragann svarta.

16. Þá var fokið þar í skjól, þola varð eg skaðann; síðan eg á svörtum kjól Setti burtu þaðan.

17. Því næst einni ekkju hjá Að gekk vistar ráðum; múka lifnað þenkti eg þá Þar að æfa í náðum.

18. Þáði hvört af öðru til Innan læstra veggja, um næturtímann þó var þil Þétt á milli beggja.

19. Innisetur æfði eg mjög, öls frá sneiddur kofi; fór eg þar að lesa lög, og lifði í ellu hófi.

20. En hún var rekin héðan frá, því húsa leigu skorti; líka mátti eg lotinn þá Labba út úr porti.

21. Hvar hún gat sér hallað að, hirði eg síst að muna; því ekki gat eg átt við það, að elta kerlínguna.

22 Ölseljari gat mig gint Gisting hjá sér taka; garpur býr í Gömlu Mynt, geymir síði spaka.

23. En hjá þessum væna vert, sem vínið lætur drjúpa, að mér fæ eg ekki gert, ögn í staupum súpa.

24. Lán eg taka laungum hlýt; ljótt er til að vita! allt er málað út með krít Upp um stofu bita.

25. Hér eg lifi á æti-dál, ø:i og steikt-um kola; af því hlýt hvørt annad mál Jdraveiki þola.

26. Þótt eg ráfi hér og hvar Hafnar út um stræti, er mér flest til ømunar, en ofurfátt ad kæti.

27. Bragna vínglar blautfisks gól, bell og vein í stødum; vitlaus hríngla vagna hjól, sem velta á steina rødum.

28. Herrann af því hædstur veit, hvørt eg tóri svona; Helga minn og herra Teit Helst er á ad vona.

29. Tistrans þeim eg sálma sel, svo ad prenta megi; þeir mér launa verkid vel, vantar þetta eigi.

30. Nú qved eg vid annan óð, um er blađid snúid: núna er vid mig gæfan góð, og grandid mesta búid.

31. Kóngi færdi eg bónar bréf, ad bæta mína hagi; sedla því í høndum hef Helst af stærra tægi.

32. En samt duga ekki má, ad idka laga frædi, sedlana mér sýgur frá, sérhvørt lítil-rædi.

33. Nú á ad byrja nýa før, Norna valda leikir: Grænlands til eg keyri knør, kóngshøndlunar beykir.

**34.** Rita eg ekki í reikníng minn, (því reisu byrja hradann), hvørt eg upp í himninn Hoppa seinast þadan.

**35.** Hédan þó eg búist brott, brýn er vonar hyggja, nú mun eitthvad annad gott Aptur fyrir liggja.

**36.** Landa og brædur mína med, mig sem hafa sédan, allra gæda eg óskum kved, og svo fer eg hédan.

---

# Sigling

frá Islandi til Kaupmannahafnar 1814 [1]).

**1.** Lystin forna mundi mist, ad midla vísum ríngum, og Einars horna væna vist, veita Íslendíngum.

**2.** Verdur ódar idjan brýn, ekki þjód til nota: dormar ljóda dísin mín, dofin fródleiks þrota.

**3.** Pundar efni árgalans Odar gjørdin stydur: skildi hrefna Bómar bands **Breida fjerdinn** vidur.

---

[1]) Þetta ádur olþekta kvædi-orkti eg 14. vetra gamall, og er þad því vida ósmidlegt, en eg vil ekki breyta því eins og þorfin krefur.

4. Þaðan slagar þjóð um geim Þá á byrðíng háum, átta daga, auknum tveim, í Arnarfirði lágum.

5. Akkers tói ol'din hørð Enn nam snara úr Sogni; með bátum róið framm á fjørð Fleyið var í logni.

6. Kom þá byr með besta stand: breið-ist voð í haginn: austur fyrir Ísa land Ysladi gnoð um daginn.

7. Stutt þar eptir hlés á hind, hafs um svæði trega, austan hreptum voða-vind, var-inn hræðilega.

8. Als um stig með ærið bann Öldur græðis rísa, þá og digur hafaldan Huldi Svæðið ísa.

9. Skulfu reingur, reiðinn þaut, rumði á náhvals sloti; siglu stengur sveigðu skaut, svo þeim lá við broti.

10. Kári skekur kaldur voð; krapta vaf-in alda Vestur hrekja gjørði gnoð Í Græn-lands hafið kalda.

11. Ei nam skarða ógnir lár Á ýsu vegi þráum; þetta varði vikur þrjár; við Orkn-eyar sáum.

12. Leðrið stríða lægði þar Lýra sléttur hagi; á eina síðu Írland var, á aðra Hetlands skagi.

13. Byrjar gráð við bøndin kvað, sem bólstur skýa þandi; þaðan náðum Nor-veg að, og nærri Svia landi.

14. Hófst þá gríma hrylileg, helst er næði týnir; svefna tíma efndi eg Og lagsbræður mínir.

15. En hér var engin hvíldar bið, á hættum vegum strauma; því að fengum vaknað við Voðalega drauma.

16. Mestu undur uxu þar, áls um fjørð-inn breiða; veðrin drundu, en voðirnar Vot-an børðu reiða.

17. Hafsins boða hæðin téð Hepti náð-um blíðum, stórum froðu fossum með Féll að báðum síðum.

18. Voða iðju Ægir jók, æstur stórum bøjum; allt að miðju okkur tók Ølgusjór á þiljum.

19. Okkar ferja ferða greið, flóðs við ýfing leiða, milli skerja mjófa leið Mátti drífa á reiða.

20. Að einum firði færðumst þá, fæld-ist skaðann hyggja; þar einn byrðíng þjóðin sá Prímastraðan liggja.

21. Bylgja þykk nam borðin slá A birni ránga þverum; eitt þar brikkskip ofar lá, inn að þángað snérum.

22. Mæða hver og møgnuð sút Mundi sigra alla: lífakkerin létum út Með línum digrum falla.

23. Hættulegra leit það út, lífs með ríngum verjum, þar var fjegra faðma djúp, og fullt í kríng af skerjum.

24. Í þrim svip sá øldin teit, ama reifuð grandi, að brikkskipið upp þar sleit. inn svo dreif að landi.

25. Ognun mesta eyddi grið Øld á stórum kaeri: sundurlestast sáum við Siglu jór á skeri.

26. Hinna sáum heljar neyð, harma jók það freka; allt var þá á eina leið: okkur tók að reka.

27. Þar nam óa þánkann við, þókti hallast friður; síðan hjógum sjálfir við Seglrár allar niður.

28. Ekkert gagna þó réð það, í þrauta gengi háu: nóttin dragna náði að, nú ei lengur sáum.

29. Lendti skutur skeri á, skell nam háan taka; skýrið brutu bylgjur þá Brádt í smáa flaka.

30. Frekt þau undur fældu þjóð; fimt var handa gripið: bátnum hrundum framm á flóð, forlátandi skipið.

31. Í bátinn fórum fjórtán manns Af flokknum gledilausa; stódu fjórir fleygjar brands Fótum med ad ausa.

32. Málma Ulla úm myrkva nátt, á mjaldurs veri beinu, med sjófullan bátinn brádt Bar ad skeri einu.

33. Bylgan stríd á skutinn skaut, skoladi slettum ljótum; alla sídu á báti braut Brim í kletta mótum.

34. Vid upp drógum brotin brádt, sem bjargar lýsti gædum; þar um bjógumst þessa nátt, þurrir síst ad klædum.

35. Med kulda og húngri þreydum þar Þriggja dægra tídir; hlés um lúng þá vordid var Vedrid hægra um sídir.

36. Svenskur „loss" þar gaf ad gát, gekk ad eya bandi, flutti oss á einum bát Upp ad meginlandi.

37 Heil fimm dægur hafdi þá Húngurs þraung oss lýad; en prísinn vægur var ei á Vistafaungum Svía.

38. Hjá svörtum þjónum synda enn, er sátu um torgid hreina, tveimur krónum máttu menn Máltíd borga eina.

39. Þó var fæda þessi dýr, sem þörf til fundum neyta. Á Ísa svædi sveitin dýr Svona mundi ei breyta.

**40.** Landi frá um lægis mey, lánga neyd þó fengi, kunnum sjá ad enn var ei Okkar skeid forgengin.

**41.** Út á vída ála stord, eptir mædu kjör-in, flýttum sídan ferd um bord, fundum gæda-knörinn.

**42.** Menn vid töfdu mikid ei, máttum þola skadann: Sviar höfdu fundid fley, og faungum stolid þadan.

**43.** Um hnýdíngs lád í hægum byl, hiés á kendu ljóni, siglíng nádum setja til; frá Svía vendum fróni.

**44.** Baust til nota byrinn sá Brims um grunda leidir: í einum flota fórum þá Full tvø hundrud skeidir.

**45.** Í þessum flota um þara kór (Sem þulan náir bera) Mastrabrotinn marar jór Margan sáum vera.

**46.** Eptir drifin ófærdar, á þeim skeid-um fínum Sundurrifin sáust þar Segl med reida-línum.

**47.** Á mastra hrafni mjúkann byl Menn-svo lengi þádu: Kaupinhafnar komust til, kætis gengi nádu.

**48.** Svo ad dregur endíng óds, eptir

hætti sínum. Óska jeg svo øllum góðs Ykkur løndum mínum.

---

## Ferð til Íslands 1820.

1. Landnyrdíngur Fróni frá Fleytir létt-um anda; hafbyrdíngur høfnum á Hirdir lítt ad standa.

2. Sjómenn toga akker inn, yfir streng-jum góla, tjøldud og í sama sinn Seglinn fyllir gjóla.

3. Súdir bijóta bylgju trøf, bragna fljót ad kjæti; otar spjóti [1]) útum høf Askur fljóta [2]) mæti.

4. Turna húna af Hafnar stad Hrøkkva fér ad baki; horfi eg núna helst á það, haf-id okkur taki.

5. Hafnar dvølinn þessi þver, þar mun okkur skilja, hvørt sem fjøl og forløg mér Fleyta hedan vilja.

6. Hafnar gædi opt um of Óskum heimsk-ra svala, mætti bædi last og lof Lángt um hana tala.

7. Medøl tídum mørg hún á, menn ad

---

[1]) Bugspjóti. [2]) Skipid.

glèdja og hryggja, enn ekki bíd eg upp á þá, opt sem hana styggja.

8. Turna-Sverd, sem stolt og stát Stærra vilja lengi Herna verda líti lát, loksins sér þau eingi.

9. Innra þannig ósk eg fann, ønnum tvennum bladinn, hylji sanna hamíngjan, húsin, menn og stadinn.

10. Austanvindar viku skeid Vagninn mastra keyra, upp med skyndi á hárri heid Hrokast sér eg fleira.

11. Sér eg fjøllinn Fødurlands Fanna skuplum hreykja, hárri enn troll, og turna fans, túnglsins ljóma sleikja.

12. Ferda hrundid harmi fæ, hvergi skadar vegur, skipid undir Bárdarbæ Bláfjalladan dregur.

13. Akker bíta Islands grunn, ásar føldum týna; þá skal flýta fæti' af unn, og fadma Ømmu mína.

---

## Til Gísla Konrádsfonar.

(Kaupmannahøfn 1834)

1. Herjans fala svanurinn Saungva hørpu stillir, og þér galar galdur minn, Gísli skálda-spillir!

2. Saungva þá eg þína ſkrá Pádi í Grænlands inni, mátti ſjá þú mintiſt á Mig í útlegdinni.

3. Nú hef eg lítinn tíma til, tónum þín= um ſvara; ſamt í ſlýtir vorn eg vil Vinſkap lengja fara.

4. Til Hafnar flotin hlés um kaf, hitti eg vini mína; nærri brotin bylgjum af Bar mig ſkeidin fína.

5. Bréfi ſvara eg þínu því Þannig nú od ſinni: ſaddur fara, eg ſenn á ný Sæki ad Sóſtru minni.

6. Utan úr løndum fréttir fár Flytur mida brotid: í fékk høndum Unnar blár Andagipt mig þrotid.

7. Enn er ſú hin illa peſt Um vor ná= læg ríki, en Stokkhólms búum meinar meſt Megn Róleru ſýki.

8. En ad greina fréttum frá, ſjarlægt ſkal mér vera; bréf þitt eina bendíng á, bródir, vil eg gera.

9. Þegar eg fána fengid hef Med fulla løgun fína, þér eg lána, Giſli, og géf Græn= lands=ſøgu mína.

10. En þú mátt bída, þángad til Prykta færdu ſkrána, þegar hrídar burtu byl Bed= jan hrekur mána.

**11.** Ljótur bagi líka mig Letur þessu sinni, svo eg fæ ei fræddan þig A flokka tølu minni.

**12.** Nú hef eg lengi lagað saung Láð fyrir dýrra klæða; því eru eingin fleiri faung Að fá til nýrra kvæða.

**13.** Hildar þrautar hvella gal Um hluftir lét eg renna, og í blautum blaða-val Blóðugann hrísti penna.

**14.** Í stofu heima høfin blá Hef eg skeiðum farið, og á þeim með øldum há aptur og framan barið.

**15.** Eg hef vakið álfa og trøll Upp úr hamra dýnum, og nærfeldt hrakið óskøp øll Ut úr fylsknum sínum.

**16.** Nákvæm smá er Nornin mín, og notar opt það litla; vill hún þá hjá vinum sín' Viðkvæmnina kitla.

**17.** En mínar telja mærðar skrár, mundi þarfi ríngur, því að helja bráðum brár Beggja okkar stíngur.

**18.** Um hrós og níð í hvørjum stað helst er eg ókvíðinn; vil eg stríðið þreyti um það, þau mín verk, og tíðin.

**19.** Einn er hróður okkar sá, ef að þér þykir gengi: **Íslands** þjóðin máské má Minnast beggja lengi.

20. Hvørr, sem lifir hels farnað Hins (Það lítst mér betur), nøldrar yfir hinum, hvað Hugurinn sæma metur.

21. Því skal heita þér, ef fyr Þú andvørpum stynur, minníng veita máls í byr Moldum þínum, vinur!

22. Eg er að þvætta um þetta og hitt, sem þú fær einkis metið. Æ, eg hætti — hamíngjan þitt Hvørt umvefji fetið.

## Nýárs vísur.

(Reykjavík 1823)

1. Geymi lýði Herrann hár, hrindi kvíða og ugga, hér þó skríði aldrað ár Undir tíðar skugga.

2. Svo eru þessi farin fet, fjærri sessi skaða: okkur blessuð líknin lét Lífa hressa glaða.

3. Honum einum heiður ber Af hjarta leynum vorum; hann oss meinum hvørjum ver, að heilla beinir sporum.

4. Ár, á førum fram sem dróst, flýr með snørum hætti; þar af gjøra líkíng ljóst Lífs með kjørum mætti.

5. Það á aldri æsku fyrst Atti óspaldan daga, steyrdi, haldið stirðri víst, stutta og kalda daga.

6. Þá lítið skeiðið lengja réð, linadi neyðar skólinn, fékk því greiða og ljóma léð Laugud heiði sólin.

7. Sumarið hlýa lèði lið, loptið fría skreytti; árið nýa algróið Yndi því oss veitti.

8. Undir heiðu hveli þá, haudurs breiðu setri Kulda neyðin flýði frá, færðist greiðinn betri.

9. Vetur lagar hretin hørð, hitann bagar fríða, styttast dagar, dánar jørð, dimmir um haga víða.

10. Vindar stríðir hrista heim, hørd er tíð á meðan; undir hríða órum þeim Aríð líður héðan.

11. Þannig fædumst veikir við A víðu svæði torgar, barndóms mæðumst veføld við, vanir kvæðum sorgar.

12. Kvikuar blíða yndið á Æsku fríða vori; einkis kvíða gjørum gá, gæddir stríðum þori.

13. En hádegi æfinnar, að þótt fleygi gengi, á grænum vegi velsemdar Varir eigi lengi.

14. Margskyns kvídi | og meingjørdir Menn þá síðan buga; kólnar tídin, kvølda fer, kviknar stríd í huga.

15. En þegar árin hverfa heims, hugar sárin gróa; í sølum klárum sólar geims Sjást ei tárin flóa.

16. Unn osz, Fadir, allt sem lér Og vorn skada heptir! ad þá gladir vøknum vér Vidskilnadinn eptir.

---

# Nýársósk

## til Bókbindara J. Gottskálkssonar.

(Stykkishólmi 1836).

1. Gefdu ekki um það, gamli minn! gott er ad vera hlýdinn; enn þó lengist aldur þinn, aungvu sértu kvídinn.

2. Eg vil bædi ár og frid Inn í þína sali Kveda, svo það vari vid, en víki neyd og kali.

3. Einnig vil eg óska nú (A sú hríni skriptin)! ad átta sinnum enn þá þú Ara sjáir skiptin.

4. Heill þér vari haganlig, hrindi sótt

og kísi! heilsan fari höndum þig Með hita, styrk og lífi!

5. Við þig sjálfan findu fró Farsældar í högum! ætíð sú hin innri ró Ára fylgi dögum!

6. Loks nær endar aldur þinn, og ára þú ert saddur, vil eg óska, vinur minn, að verdir þú brádkvaddur.

## Stökur 1838.

1. Virdstu Hlin á hveli' blá Híngad geislum snúa, rendu þínum augum á Örlög nordur búa!

2. Lát ei mæda hópinn hinn Hæga sumar idju, sem ad hrædist hitann þinn Heims á bordi midju.

3. Gef þá híngad geisla fjöld, gróda, líf og varma; hér oss þvínga hretin keld, vid hráan jökla bjarma.

4. Vorum þörfum hamlar hér Hagla bilja slagur; senn ad hvörfum sólar ber, senn er lengstur dagur.

5. Hrída grand og hríd ad sjá, hrillir alla kvika; sökkur landi í svölum snjá Sumars átta*) vika.

*) Attunda.

6. Snattasólin hálofud, hrídar neyd sem vardar, hvørri fól á hendur Gud, ad hlúa belli jardar!

7. Láttu rýma ókjør ód, og ógnatídir skarda! Nú er tími ad lífga lód Lengi hrídar barda.

8. Léttu módi, og lífga gód, litlu gródur=stráin! heittu glódum lopt og lód, læki, flódin, sjáinn.

9. Veittu bætur, ljádu lid, lát oss koma ad haldi Allt hvad lætur Almættid undir þínu valdi.

---

## Frá

### Asgrími Presti Vigfússyni [x]).

1.

Heil ver þú, hafalda!
alls þig heila bidur
vinur þinn ad vera;
fall þú mér í fáng,
ad eg fadmi þig,
og varir þínar votar
kyssi.

2.

Ber þú heilan heim
hærum prýddan
Asgrím Vigfússon
andsimastan!
Ber þú hann endur
í okkra sali

---

[x]) Hann var dæmdur hér i landi frá embætti og kalli, en hafdi fullkominn sigur allra mála sinna fyrir Hædsta Rétti, þegar hann sigldi sjøtugur ad aldri.

happa sælan,
heidri krýndan!

3.

Sá þad Temis[1]) drottníng
frá tróni háum,
hve øldúngi sveid
ergi hugar.
Leid hún þá hvatast
á himin=vagni
ad stóli þess,
er stýrdi Donum.

4.

Gydja heiløg héldt
á gullnum metum,
og seldi í hønd
Stólkonúngi;
baud honum vega,
og vel ad hyggja,
verdleik Asgríms,
og vita sakir.

5.

Fram kom þá
Sama[2])
hin fjølmálgasta,
og lagdi allt í skál,
þad er lýta mátti
æfi alla
aldins herra;
svipadi lítid
léttum metum.

6.

Lét þá Temis vegid
léttu á móti
dád og dugnad
Drottins þénara;
skipti þá skjótt
skála þýngdum,
svo ad mundridi
stód á enda.

7.

Rœddi þá þannig

---

[1]) Gydja Réttlætisins. [2]) Sama, rógburdar gydja, ýngsta dóttir jardarinnar, sem hún fæddi af hefnd=argirni vid gudina, eptir fall Gígantanna, sona sinna.

hin réttlátasta:
„hví viltu, kouúngur,
hærdum manni
láta lydir einar
ad lasti bella,
og þjón hins hædsta
heidri rændan.

8.

Snoturt er hjarta
í snillíngs brjósti;
erat hugur þrotinn,
þótt hrørni búkur;
nerdurhøf gegnum
nú sjotugur
sækir hann þig, sikl-
íngur, í sali.

9.

Hann kvad ei mundi
hugur um fallast,
þó hryndu bylgjur
á herdum øldnum;
kvadst hann ei æru
fyrir elli sakir
láta rænast vid lýgi."

10.

Skar þá skjøldúngur
skírt úr máli,
og sagdi fram sýkn
sálna hirdis.
Gekk þá hinn aldni
á ægis bak,
heill heim borinn
hryggjum boda.

11.

Folleit vard þá øfund
og af sér komin,
þegar hins offókta
sigur visði;
brosti þá gæfa
af gódum hug,
og heimkomnum herra
til húsa fylgdi.

---

# Andsvar

## til Vernhardar Prests

móti þessum erindum hans.

1. „Opt hefur Breidfjørd stundir stytt
„med støkum sínum Því er skyldt, vid þetta
„launum, þegar hann er nú í raunum.

2. „Allir gefum einn túskildíng, allt ad
„marki, svo Frelsarans á oss finnist merki,
„framkvæmdin í ordi og verki.

3. „Þar med skal hann borga brot og
„bæta trega, mannords hnekkíng má opt
„laga Medur litlu, og sér án baga."

---

1. Vernhard Prest eg virda má Í
vina flokki bjarta; hann hefur ødlast of-
an frá Anda sinn og hjarta.

2. Holdlega þó hafi séd Hokla baldur
ekki, á ordum hans og meiníng med Mann-
elskuna þekki:

3. Ad hann minnir Íslands þjód A þá
hugar prýdi, mín ad vildi líti ljód Launa,
medan eg strídi.

4. Vorit bættu Fedur fyr, Fátækt

Skáldaspilli, saman báru af hylja hyr [1]) Honum þýngju fylli.

5. Eru dánir Aar þeir, þó æru minníng standi; Alþíng heldur ekki meir Er á vøru landi.

6. Eivindur af øllum bar Orda simni brýna, heilli þjód því heidur var Honum lid ad sýna.

7. Ljód mín hafa lítid bygt Landa minna prýdi, enn þá heldur eingann stygt Med adkøstum og nídi.

8. Halda minni hreinni sál Helst þar frá eg vildi, svo ad klám og keski-mál Kvædum aldrei fylgdi.

9. Launin fékk eg víst í vil, sem vída til má finna, ad vísu meir en vann eg til Vinskap landa minna.

10. Von því hef eg vísa á, ad vildu fæstir ýta Eptir skildíng einum sjá, ef mér kynni hlíta.

11. Orleik skortir ekki þá Adstod sinni ad bíta Mér svo þetta mála-stjá Mætti af høndum slíta.

12. En eg gjalda annars má, ef einginn vill þeim flýta; þeir hafa sumir þánka dá, þó þekkíng beri nýta.

---

[1]) Gulli, peningum.

13. Skyldi okkar óſk í vil Yfir bygðir renna, einn þar þyrfti Engil til Eda hvaſsann penna.

14. Horfi eg mína hagi á, en hrædiſt lítt í ſkapi; einginn ſkal þad á mér ſjá, þó álnum fáum tapi.

15. Vil eg minnar andar aud Öllu dýrri meta; einginn laga ſkulu ſkaud Skardad þennan géta.

16. Svo vill líka huggun hin Hjálpa mér ad ſtrída; nokkud fyrir koennlegt kyn Kært er mér ad lída.

17. Eg ſamt mundi æru þá Allra hædſta virda, ef mínir vildu Landar ljá Léttir minna byrda.

18. Medan hræraſt mætti blód Mitt, og þánkar vaka, einginn ſkyldi ønnur þjód Ædri þakkir taka.

19. Sérhvør einn og ſérhvør þjód Sanngjørn verdlaun finnur, fyrir æru eda hnjód Athøfn þeirra vinnur.

---

# Fráſaga.

1. Litfrídur únga í loptſolnum er; · lædiſt ad nóttin, en dagurinn fer

hinsvegar hnattar að ljóma.
Tendrar hún ljós, og að ljóranum ber;
laungun í brjóstinu hagrædir sér,
þögul við þánkana tóma.

2. Vænsta og tryggvasta vininn hún á,
og væntir, að komi í húminu sá,
ástanna blómstur að binda.
Frammi við gluggann stóð **Fríður** að gá,
fjørður á milli því bæanna lá,
með ábreiðu', er ísarnir mynda.

3. **Vilmundur** ljósið í ljóranum sér,
leggur á fjørðinn, sem þakiður er
ísum og hefur á hlaupi;
ástin, í brjósti, sem innra hann ber,
aðgjætslu rekur úr hýsi frá sér,
hún dofnar ei, dýrt þó hún kaupi.

4. Á hálfnuðum firði hann hrasar í vøk
(hál eru' og óstøðug vatnanna þøk),
hyldýpið bonum við tekur;
eingin þar heyrast hins einmana kvøk,
að umbrotum sterkustu hjálpin er løk,
því Ægir er illvelka frekur.

5. Hann skýtur upp höfði, og hvørmunum brá,
heitmeyna og ljósið í glugganum sá,
og þessum orðum fram stundi:
„komdu, mín blíðasta, og búðu mér hjá!

„ad bygdunum þínum ei komast eg má"
Hann søkk nú ad sídasta blundi.

6. En øndin, hún lídur, sem eldíng fram ber,
ídar um gluggann, þar meyuna sér;
en hún fær ad heyra þann vanda;
Vilmundur sokkinn í vøtnunum er;
vid þad í aungvit hún hnígandi fer,
og nær ekki optar ad anda.

7. Líkhaminn kólnar, því lífid hann flýr;
losnar því øndin, og skjótlega snýr
þángad, sem hittir hún hina.
Elskunnar varmi, hann verdur þeim nýr,
vidkvæmur, trúfastur, syndlaus og hýr;
súngu þá verurnar vina:

8. „Vid erum andar, og vefjustum því
„veru og einíngu sífeldа í,
„af Födurnum frelsiru gladdir"
Þau lidu og lidu, nú skýla þeim ský,
eg skýanna bólstrunum heyrdi eg í
eyrunum ilmandi raddir.

---

# Fugla ríkid.

1. Á eikar stofni ørninn hám
Uppréttur sat, og horfdi vída,

því allir áttu honum hlýða
fuglar, sem líðu lopts í ám.
Kóngurinn sá frá fögrum stól
sína þénara misjafnt reyna:
mörgum var fátt um fæðu og skjól,
fyrir því urðu sárt að kveina.

2. Fuglakóngurinn sjálfum sér
af sumra hafði fjöðrum dregið,
og þá að skinni fiður-fleygið;
einnig hafði sá illi her,
sem hann í völdin hefur sett,
að heimta bráð af smáfuglonum,
þeir gjöra fleira rángt en rétt,
og reikníngar falska báru honum.

3. Kóngurinn þessa verður var,
og lét það boð um loptið gánga,
að leita skyldi til sín þángað
fuglinn sérhvörr, sem bölið bar;
þeir skyldu sjálfir flytja flest
fyrir sinn dóm, og nauðsýn klaga,
lofaði þeim að bæta best
bölið, sem þækti miður haga.

4. Fuglarnir ofurfegnir þá
fjaðrirnar tóku að dusta og prýða,
hópuðu sig í flokka fríða,
stjórnarans vildu stóli ná.
Nálægjast þeir, en — núna sjá

nefja = hvaſsa og brúna = ſíða
ſtór fugla ſvarta ſtó'rum hjá
ſtanda með bragðið ekki fríða.
5. Hríngudu ſig um háan trón
hræfuglar þeir með fjöðrum ſíðum,
og hreyttu ſvörum ekki blíðum,
hótuðu vinna hinum tjón,
ef að þeir vi'ðu voga ſér
að viðarſtofni konúnglegum.
Hugþrota frómu fuglarnir
flýðu því burt á ſömu vegum.
6. Heim komu þeir í hreiður ſmá;
hinir gripfuglar eptir leita,
til hefnda af þeim hami reita
miſkunarlauſt, og meira þá.
Svartbakar réðuſt æður á,
illir hrafnar þeim fy'gi veita,
fálkarnir ſmærri fugla ſlá,
frekari krapta og va'da neyta.
7. Svo er það enn, og ſvona var,
ſvartbakar, hrafnar, fálkar, drekar
eru konúngſins erindsrekar,
og meinlauſa fugla án miſkunar
afklæða því, og eiginn ſjóð
uppfylla dátt af þeirra ſveita,
ſvo ſem tófan við ſauða blóð,
ſjúga, kvelja og fjaðrir reyta.

8. Þótt Kóngur øllum vilji vel,
veit hann og sér hann ekki meira,
en þeskum lítst hann láta heyra,
þó smáfuglar sýti sig í hel.
Offstórt er ríkið augum tveim
yfir að fara; því er miður,
að æru fíknin í okkar heim
óþrjótanlega um meira biður.

## Þjófur og Morðingi.

1. Fastir í fángelsi voru
foiðum, í **Lundúnar** bý, morð-
íngi myrkrunum í,
og þjófur af þeim hinum stóru.
2. Þeir voru líkir til lista,
og líklega kunníngar tveir. Samferða
því áttu þeir
félagar gálgann að gista.
3. Læknir — nei, **Anatomikus**
(yfirsett get eg ei það orðrétt á ís-
lendsku; hvað?
ef eg set **Innisla—kikur**?) —
4. Lesari! leyfðu hann heiti
**Læknir**, á meðan eg þér söguna segi,
því mér
tekst ekki betur, þó breyti.

5. Hann nam í húsid ad gánga,
hvar hinir, er sagdi eg frá Bidu síns bana, og þá
vid mordíngja fór svo ad mánga:
9. Viltu ei, vinur minn, selja
vesælíngs kroppinn af þér, þá fjørlaus og fullhánginn er?
Sex þér eg sedla vil telja.
7. Þig vil eg krysja og kanna
kænlega innibli og bein; þér verdur þad ekki mein.
Mordínginn máli xéd anna:
8. Ekki' er eg enn þá svo snaudur,
ad ágirnist sedla hjá þér; þad hád-uglegt hundsvirdi er!
kannské jeg kosti' ekkért daudur!?
9. Vissi' eg ei heimskari hrikann,
ad halda jeg selji mig þér! Héldi ei hálsjárnid mér,
skylda jeg krysja þig kvikan.
10. Þá mælti þjófurinn hljódur:
þér skulud kroppinn af mér fá, þegar uppfestur er;
eg veit, ad eins' mun hann gódur.
11. Þjósina fríska og feita
fyrir einn ríksbánkadal ydur þá afhenda skal;
meinsemi mér lítst ad neita.

12. Okkur þeir ætla á morgun
ad uppfesta; heyrid þér til! strax því,
minn vinur, eg vil
fá þessa billegu borgun.
13. Læknirinn leysti upp skjódu,
og lætur sig gleraugu á. Fagur var
sjódurinn sá
og fullur af gjaldinu gódu.
14. En þjófurinn heldur á hnífi,
hinum hann rekur í kvid. Læknirnum
verdur svo vid,
ad brádum er lokid hans lífi.
15. Þá skipti þjófurinn klædum
vid hann, sem ad hnígur á lád; svo
gat hann sjódinum nád.
En flest verdur feigum ad mædum.
16. Bødullinn brýtst inn, og tekur
hann budduna geymir hjá sér, ad gálg-
anum bundinn hann ber.
Ur honum Ondina hrekur.

---

## Stúlku Lýsing.

1. Um hringa trótur háttur frór Hug-
mynd fer ad smída; raud sem blód og björt
sem snjór, brúdurin er hún Frída.

2. Sig á blóma — búnu drós Blinda margir störðu; hún er ljómi, hún er rós, hún er sól á jörðu.

3. Loptið baðar ljósum klár Liljan eisu brunna; gullfjallað er hennar hár, sem hrísli geislum sunna.

4. Augun hreinu, fölskva frí Fögrum hrósa glönsum, með smaragðs steinum innan í, ofann rósa krönsum.

5. Blómgvast litum besta fljóð, sem blóð í snjónum hreinum; einatt situr rósin rjóð Rúm á kinna beinum.

6. Hefur vitur nefið nett Nöðru láða eyin; með hvítum litum liljur þétt Liggja báðumegin.

7. Farsin vara hefir hrós Helst með blóma nýtum, sem gullið rara glæðir ljós A guðvefs dúki hvítum.

8. Munnsins prýði — myndin h'ý Mér er bara gáta; hennar blíðu brosin því Breyta á ótal máta.

9. Hakan stutt er henni á, hulin fögrum roða; lítið skarð í miðju má Merkja ef grandt er skoðað.

10. Hendur smáar hefur drós, húðin vefur þýða; æðar bláar blómstur — rós A bökum handar smíða.

11. Þá er búið þarna með Um Prúði hríngs að ræða. Heldur þú eg hafi séð Hana innan klæða?

12. O, þú ljóma liljan hrein, sem ljóðin vilja mála! hjartans fróma unun ein! yndi lífs og sálar!

13. Komdu, að skína, komdu brátt! komdu, elskulega! Eg þig mínum örmum dátt Innvef hjartanlega.

14. Komdu, að hlýða á kvæðið nýtt! Á knjám hér sittu mínum! Ljóða smíði bros þitt blíðt Borgi vini sínum.

15. Æ, þú kemur ekki nú, yndi slíkt að veita. Hvaða draumur! hvar ertú? hvørt á eg að leita?

16. Jeg skal leita um jørð og sjá, jeg skal hrópa og kalla, eg skal vængi fálkans fá, og fljúga um heima alla.

17. Eg skal hýði af ormum fá, um iður jarðar flana. Onei, það er af og frá! ekki finn eg hana.

18. Einn er galli á úngri mey, aungvu svo eg gleymi: því er miður, að hún ei Enn er fædd í heimi

---

# Rósa.

1. Kaldur vetur mædir mig, mold og keldur frjósa. Það er betra að bæla sig við brjóstin á þér, Rósa!

2. Þitt skal nýta heidurs hrós Heims um sali tóna, ó þú hvíta og rauða rós Rødruls hvala fróna!

3. Einatt glæðist vonin veik Vitsku leynum mínum; skýl mér, flædar eida eik, undir greinum þínum!

4. Veit eg, spakur vinur, þér Verða orð á munni: hvør mun maka hitta sér Hennar, sem eg unni?

5. Hvar þú fljóða hárið sér Hreint, sem dúninn svana? vedfé bjóða þori eg þér, þú hefur fundið hana.

6. Ef nett og føgur øll hún er, svo yndis geislum vefur, eg vil søgu segja þér: séð þú Rósu hefur.

7. Þá hríðar vedur húsin ber, á hørðum orma bana, Siggi kvedur í krók hjá sér Kvæðin sín um hana.

8. Þegar búra-bóndinn er Við b'ysin. nætur stjana, eg með dúrum dilla mér, og dreymi þá um hana.

9. Dagsins vinna ei mæda má, mig á konu Grana: því eg minnist einatt á, allt er gjört fyrir hana.

10. Gladt er auga og ønd í mér, elska eg því þann máta, ad sýngja, spauga og hlæa hér, heims þá børnin gráta.

11. Eg þá frædin yrki ný, ein og sem er glósa: mínum kvædum efnid í Ætíd verdur Rósa.

12. Þar ad hneigi eg eidstaf einn, eikin flædar ljósa! mansaung eigi yrkja neinn, án þess fái Rósa.

13. Þér skal andi allur minn Einni í greinum hrósa, alskínandi, úng og svinn Edalsteina Rósa!

---

## Saknadar stökur.

1. Eg skal gráta únga mey (Øll mig naudin hrekur); jeg skal láta af því ei, uns mig daudinn tekur.

2. Fyrir hana í sérhvørt sinn, fái eg tára regnum, þar til bana bródirinn Borar hjartad gegnum.

3. Dagur sýnum dimmur er, dauda

myrkrin hóta; sólin skín, en margur mér, meinar þess ad njóta.

4. Sjálfs míns hata eg sæng og borg, sem eg í má þreya; mín er gata gróin sorg. Gud, mig láttu deya!

---

## Bidils bréf til K... J...

(Stykkishólmi 1836).

1. Líkt og flugan loptsins heita, lángur vetur þegar dvín, minn vill hugur laungum leita, linna fleta Sól! til þín.

2. Þig eg bind svo opt í anda Ormum kærum mínum hér; finn þá yndi allra handa Og edlisværar hugsaner.

3. Mig þó huggi hugur naumur, heppni slík ei vara má; þad er skuggi, þad er draumur.— Þad er líka máske spá.

4. Mín ástkæra! mig þótt buga Megi og særa leidindin, þér eg færi heilan huga, hann er ærid skjótleikinn.

5. Hann, þó vetur herdi flaginn, hvatad getur til þín veg, og hjá þér setid heilan daginn; hann á betri kjør en eg.

6. Vonin fríða hyggju blíða Huggun

blíða gefa má: betri tíða til mun líða; tjáir kvíða eingu þá.

7. Vonin gefur værð, sem krefur; vonin sefar meinin smáð; vonin efa og vafa kefur; vonin hefur þúsund ráð.

8. Hennar mjúka hønðin dáða Hugar nauðum létta kann: huggar sjúka, hrelda, þjáða, hrakinn, snauðan, ráðviltan.

9. Mér hún yndið eykur bjarta, ýmu vinda gefur skjól, mitt hún bindur hjá þér hjarta, hita lindar morgunsól!

10. Hún á undan unun sendir, enn þótt stundir líði frá, þínum fund svo, fagurt kvendi! fagna eg hundrað sinnum má.

11. Þar við uni, þess skal njóta (Þánka slúi stríðið hitt), hún ei muni heit sín brjóta, heldur en þú og brjóstið mitt.

12. Eg mun sladur eitt fram bera, ønnur hasta verð um stef, af því blaðið átti að vera Utvaldasta ljóða bréf.

13. Það skal eigi þannig vera, að þrjóti; vænir síðir hér: eg vil feginn, sljóðið, gera Fyrirbænir handa þér.

14. Lifðu rótt við lukku bjarta, laus við stríð og hugar pín, þitt svo óttist eigið hjarta Aldrei, blíða stúlkan mín!

15. Allt hið góða unun veiti, ástúðlega mærin, þér! Hugar móð til heilla breyti Heims um vega sældin hver!

16. Finnast léttir ferða pozar, fólk þó spretti sér á stjá; einginn fréttir úr þeim tosar, utan slettur ðœa smá.

17. Ei skal nokkur hug minn hræra háttaktaður vani því, bréfið okkar, K . . . kæra, kota slaður að láta í.

18. Að menn deya eða fæðast, að menn hneigjast fljóða til, þar frá segja þeir er slæðast Þér um veginn, falda Bil!

19. Göndul mjalla láturs linda Leifis fallegt géfi svar, fyrir allar fast að binda Ferðakalla skjóðurnar.

20. Fólk um veldi fréttum aki, sem fegið geldur skémtun sín. Til þín heldur hjartað kvaki, hafnar elda Sólin mín!

21. Til þín muna mest eg nái, Mönin rauðu bauga hér; hjá þér una einni þrái, án þín dauðans leiðist mér.

22. Í þinni hendi er auðna og yndi Allra stunda minna fljóð! Huggun sendu lúðu lyndi, ljóma sunda rósin góð!

23. Viltu þetta heita hjarta, hollar festa ástir við, handar kletta Bólmey bjarta! og bæta flesta mótlætið?

24. Fær mitt auga ástir vakið, að sem hyggja viljir þú? það er laungum harma hrakið, og heldur skyggjast tekur nú.

25. Fær þú unnað følum kinnum Fremur þessum, mærin smá! sem tár um runnu tíðum sinnum? týndist sessinn blóma þá!

26. Lífs í bylgjum blómstur yndis Bestu náðu drukkna mín; af því fylgir ángur lyndis, ein sem náðin bætir þín.

27. Sem einmana skjálfi á skari Í skugga nætur litið blys, nærri bana við þó vari, veik er kæti mín, sem fis.

28. Huggun þráir hjartað smeika, hrinda sínum fýsir móð, eins og stráið stoðar veika, er storma hvína yfir hljóð.

29. Þessa lundu, þetta hjarta, þinn sem undi best við fund, láttu mundu lífga bjarta, ljóma sunda kæra grund!

30. Best af fljóðum! huga hljóðum Hrittu óðum mínum þá; fjørs af flóðum ferðamóðum Í faðmi góðum hvíldir ljá!

31. Eg mun hjá þér endurlifna, aptur fá hið mista skjól, eisu láar ekran þrifna! eins og stráin vermir sól.

32. Þá skal lyndis harmi hrinda, heilla mynduð tíðin skín; þig skal yndis bøndum binda, blessuð linda rósin mín!

**33.** Þá í nædi þróist gaman, þánka glædisl hræríngar; hjörtun brædi beggja saman, bestu hæda verurnar!

**34.** Senn mun stundin litla líða, linda grund, þig fæ ad sjá. Eg vil fundar feginn bída, og fela lundar heita þrá.

**35.** Far nú, blad mitt búna, veginn! bid eg hrada megir stig Í þann stad, sem eg vil feginn Alskapadur bera þig.

**36.** Varast hendur hrekkja manna, er hoggja slátt og stunda á; í fadmi lend þú frídum svanna, fadma dátt og kystu þá.

**37.** Lifdu í fridi K . . . kæra, kraptar hæda geimi þig! leiki vid þig lán og æra, líf og gædi varanleg!

**38.** Allt sem best þér ann eg njóta, unun flest í heimum tveim, huga mest til hollra bóta, hjá þér festist, bauga reim!

**39,** Þegar grennist heimsins hagur, hels þá øldi myrkur slær, upp þér renni ædri dagur, aldrei kvøldi sem ad nær.

---

## S t ö k u r.

**1.** Morgunvindur vildi eg Verda ad gamni mínu, svo eg fyndi fljótan veg Í fadm á bauga = Línu.

2. Skyldi eg léttur læðast þá; línspaung rúm þar hefur, kossa slétta um kinnar smá, kæran meðan sefur.

3. Skyldi eg blakta hennar hægt Hári um brjóstin niður, og rúmið vakta þeli þægt; þessa hjartað biður.

4. Eg, sem vindur, vakur þá Vefði mig um brúði, og drykki yndis anda smá, sem undir brjóstum dúði.

5. Heillum morgum hrósa þar Hjá þeim svanna úngum, hulinn orgu ofundar Augum þá og túngum.

6. Eg, sem vindur, vermdi þýðt Vefju glætu strauma, og mundi synda um brjóstið blídt, að brugga sæta drauma.

7. Hér má smía huga frá, heimsku drauma að laga; hérna búa enn eg á Yndisnauma daga.

8. Samt ei kvíða brjóstið ber, brádt mun líða stundin; gæfan fríða geymir mér Gullhríngs hlíðar fundinn.

---

## Kvenna fylgð.

(Ur bréfi)

1. Systir kæra! sæl þú ver, sífellt æru vafin; letur færa lætst eg þér, ljóða ær því hausin er.

2. Vilji rétt og ósk mín er., um þig sléttist gæfa, óskir metti þægar þér, því af létti, er miður fer.

3. Þegar frá þér víkja vann, vin eg sá mér hverfa; en þó dável (eg það fann) A mér lá um daginn þann.

4 Frá þér meyan, fríð að sjá, fylgð með snild nam veita; verða fegin margur má, menja Freyu að staldra hjá.

5. Mér varð øllum umturnað, eins og neins ei gáði; klæða þøllin, blíð sem bað, Blómsturvøllum fylgði að.

6. Stund eg dvaldi þarna þá, og þáði greiðan brúða, því ykkar valdi að vera á, vildi eg aldrei leysast frá.

7. Að sønnu var mér ó og um Aðra léða brúði; fékk sú vaða í flóunum Fenin bara að þjóunum.

8. Hana eg sjaldan horfði á. Hér af sér þú, kæra! í taumi halda mér eg má, þótt Mønum falda dvelji hjá.

9. Hér næst fann eg Holti í Hróðugur þriðju brúði; vargs um rannið vilja frí Vænn mér svanni fylgði því.

10. Hún var smá, en leguleg, lipur — svipuð píka, hýr á brá og hvørgi treg; til hennar sá því stundum eg.

11. Í Kletta inn eg komast vann, því kvæða dáðum beitti; vísið svinna fjórða fann, fylgð sem vinna þæga kann.

12. Sú var kát, og blóma bar Vetur, en metið verði; hún í máta vaxin var, sem venjast látum píkurnar.

13. Henni vildi eg oka að Einatt stein-um brúna; hún mér fylgdi Jerju að, fra mér skyldi svo við það.

14. Fræg sú lengi fylgdin er: fallegar allan daginn Stúlkur fengu að fylgja mér; fékkst ei dreingur nokkur hér.

15. Slíkur dagur, Drottinn kær! deyr ei meir úr huga; hann var fagur, hann var skær, hann eg klaga liðinn fjær.

16. Meðan veit og myrkri frá Mána skín að deila, hans eg leita og minnast má; Meya heiti Dagur sá.

17. Þegar í hasti hrundum frá Hlaut eg brautir snúa, mér var kastað út í á, andann brast mig ljóða þá.

---

## Kvenna grátur.

1. Ekkert á jarðar yfirborði,
sem okkur knýr að lífi og morði

Og tíminn er að taunglast á,
hvorki hjá oss, né andfætíngum,
þótt allan hnöttinn leitum kríngum,
og ekki „móðinn" hjá útlendíngum,
hvikult finna, sem manninn, má.

2. Munur á **biðli** og **manni** verður
Mestur af öllum hlutum gerður,
líkt og svartnætti og sólarbrá.
Svo herrast allar konur kvaka,
sem keyrast í bönd við ektamaka:
Tilhugalífið lukku-spaka
Englana skilur árum frá.

3. Biðillinn einatt oss vill þjóna,
og ef hann fær að leysa skóna,
metur hann fyrir mestu náð.
Hvað lítið sem þær hnakkann reigja,
hnignar þeim, eins og skuli deyja,
andvarpa þúngt, en ekkért segja,
þolugir líða last og háð.

4. Inn' í húsum og út' um stræti
Með ástar saung og gleðilæti
biðillinn eltir enda vorn.
Ef honum sýnist hrukka á vánga,
úr hýðinu ætlar rétt að gánga,
ráðgerir þá að rifna og hánga,
og flýr í burt í feluhorn.

5. Nú fá þeir vora nád um sídir,
nú eru kjærleiks fundir blídir.
Vid látum okkur vígja og þá.
Spánýr til þeirra kemur kraptur,
þá klerkurinn lætur munninn aptur:
bidillinn er í bónda skaptur;
þá lídur øll vor dýrd í dá.

6. Nú kemur ei til neinna bóna,
nú skyldast konan til ad þjóna
audmjúk og hlýdin hvørt eitt sinn.
Hún má nú blícka, bidja, kjassa
Til bords og sængur giptan trassa.
Nú heitir þad: ad hún skal passa
Kræsíngar, drykk og klædnadinn.

7. Standi nú ekki allt í máta,
ætíd má konan sektast láta
Og fyrir honum standa sneypt.
Purlegur næsta þá vid hana,
þreytist hún vid hans bord ad stjana,
ordshátt hann hefir einn ad vana:
„til hvørs hef eg mér konu keypt?"

8. Fyrr søgdust þeir á fadmi og kossum
Fullsælir geta lifad ossum;
en nú vill ekki nægja slíkt.
Kaffe, mungát og fædu feita
Fram skulum vér nú einatt reyta,

því ekki tjáir um að neita;
eptir öllu er rekið ríkt.
9. Að vera alla æfi kona,
og undir þeim að búa svona,
mun það ei kosta meiga tár?
Þannig að vera sjálfur seldur,
sárara er, en brenni eldur;
faungunum bandið hjóna heldur,
þángað til verðum þjáður nár,
10. Hættið, ó konur, harmagráti!
Heyrið mér: þar er góður máti,
ef þér mín viljið rækja ráð.
Um ykkur sífeldt ofurhræðda,
á eltíngum og vöktun mæðda,
gjörið þá enn á fæstu fræðda!
Svo vona eg þeir batni í bráð.

---

## Við Lóndránga.

1. Stolt að sjá er hetjan háa, heimri dráugur,
digurð knáa drýgir strángur,
úr djúpi bláu réttist lángur.
2. Alla tinda og efstu vinda yfir skagar,
brimils lindar botninn nagar,
Babels mynd hann nærri slagar.

3. Bródur sá vid síðu á úr sæfi alinn,
klæda bláan, vaxtar valinn,
voða háan líka talinn.
4. Loptið brjóta báðir þrjótar, bloskrar
þegnum;
skara spjót úr skrokki megnum,
skýin hóta að reka í gegnum.
5. Oldum hrinda, að ef synda, ódt til
baka;
høfud—mynd við himni skaka,
hvirfilvinda í fángbrøgð taka.
6. Skruggum sleyþa, en skýum sveipa
Að skædum bríngum,
af sér hleyþa hafnyrdíngum,
handrið gleyþa síg í kríngum.
7. Fætur vidur falla og iða feiknir boða,
fælast við sér framm að troða
fugla nid og margan voða.
8. Fuglar medan tempra téða tóna stránga,
undir kvedur draugur Dránga
digra medur rødd og lánga.
9. Hljóðin meiri manna reyra mál og næði;
tryllast eyrun á mér bædi,
einginn heyrir þetta kvædi.

---

## Kvedja utaná

Magna áa japa jørd Jardor bundin liggur; hvelid bláa um Glitnis gjørd Grana sprundið þiggur.

* * * *

Þó menn leiti í vedur og vind (Vita læt eg mengi), svo eg heiti brúdar bind, ad bragna leysir eingi.

---

## Um

### Brennivínskvartél, sem átti ad fela.

1. O, þú vesllíngs ámu jód! ørløg þín má klaga; í þér rann þó æriegt blód, alla þína daga.

2. Ovarlega eins og mig, opt þó stofui vanda, forløg hafa hrakid þig Heims á milli landa.

3. Fyrst vid reykjar kera køf Kraptur ór þér þrekinn, og þá varstu út á høf J ógu og storma rekinn.

4. Þá ad mínum bygdum bar, og best þér Kyldi tekid, hafa þeir þig til hádúngar Med hrosšatorfum þekid.

5. Lokfins gat eg leyst þig. úr Ljótum reidíngs klædum; en þá rak þig inn í búr, ørþurkad af gædum.

6. Ekid var þér út um þad, svo okkar spiltust fundir, og þá fleygt í fúlan stad Fleti nokkru undir.

7. Hógværd þinni hvørgi brá, hvad sem máttir lída; eingiun kunni á þér sjá, utan svipinn blída.

8. Lokfins þig eg leystann finn J líkur mínar gánga; til min ertu upphafinn, eptir mædu lánga.

9. Vatnsótt, fylli og veiki skjæd Vissi' eg mjøg þig hrjádi; þér eg vildi opna æd, og þad vard ad rádi.

10. Ohó, hvílíkt ógnar slis! eingiun slíkt má græda. Ætlar þér til ókífis, elskan mín, ad blæda?

11. Allt fram streymir æda blód, edlis saftin frída. Æ, æ, æ, þín øndin gód, er nú burt ad líta!

12. Nú þótt hafi um hjartad mitt Harma stormur flogid, daudablódid dýra þitt Dável get eg sogid.

13. Andvørp þau og óskir mín Einatt skal eg flytja. ad øndin megi aptur þín Einhvørntíma vitja.

14. Fyrir þér skulu Bacchi børn Biðja kvøld og morgna, aldrei má þín ædatjørn Algjørlega þorna.

## Skrifad í Eddu.

1. Edda hefir ymsum bætt Ordaskort og vanda. Hún er komin þúsund — þvætt Þjódinni til handa.

2. Lastord sumir láta stíf Lemja Eddu smáda, adrir segja hún auki líf; eg læt hvørn því ráda.

3. Má eg hvísla mønnum því Mjúkt í vinar eyra? „Hún er máské hósi i Hentug, eins og fleira."

## Stokur.

Lætur hlýna manni mær, mætur sýnist fridur; nætur dvína þannig þær, þrætur týnist nidur.

* * * *

1. Byrjar rúnir reist eg hér, Ragna hroptur vinda; á stafni bædi og stýri hér Stafi forna mynda.

2. Þinn skal oss á vítum ver Vængja þróttur hrinda, líkt og ský um loptið fer, láttu knörinn synda.

* * * *

1. Gefðu' ekki um, þótt ögnin smá Í auga tolli mínu! bezt' þig heldur burt að ná Bjálkanum úr þínu!

2. Ekki vil eg venja þá Af vesslíngs gamni sínu, sem að hryggjar hnútum á Horudum taungla mínum.

* * * *

Það er ekki um það að fást Í þessu kvæði, þó eg leggi litla ást við litilræði.

* * * *

1. Sólin ekki sinna verka sakna lætur, jörðin undan grímu grætur; grasabani, komdu á fætur!

2. Ef þú hefir heiptar lund við heilög stráin, nú þar dagsins birtir bráin, berðu að þeim hvassa ljáinn!

* * * *

Þegar eg hygg, að höppin fín Heilla auki kjörin, krókótt liggur leiðin mín, líkt og hrafna förin.

* * * *

1. Að mínum núna eg högum hygg, hvernig fram vill skila: þar komst eg með heilan hrygg, sem hinna varð að bila.

2. Þækti unnin þrautin mín Þá, og batna leiði, mér nær sunna skrúða skín Á skýja-lausu heiði.

* * * *

Aldrei held eg af þér tjón Óðin fáiríka. Ef þú, djöfull, átt hann Jón, þá eigðu að tarna líka.

## Ríkur og Fátækur.

1. Fátæktin lítið fælir mig, þó finnist sumum eigi létt; ætla hún sé svo óttalig, ef að við hana skoðum rétt.

2. Þú, ríki maður, þér sé vel! þó, ef eg nokkurs biðja má, meðan eg þennann galdur gel, gjörðu svo vel að hlusta á.

3. Við skulum saman tala tveir, teldu mér þínar hagsælder; jeg sé þú getur megnað meir, manndygdirnar ef stjórna þér.

4. Enn jeg ef beiti öllum mátt, efnum og vilja í sannri trú, þótt að eg einatt orki smátt, augnamið sama hef og þú.

5. Þú kætist, ef að þér í skaut Þúngum ríxdala sjóði nær; enn jeg ef fæ í aski graut, ánægju mér það stærri ljær.

6. Sá sem þarfnaðist þess hann fékk, því skyldi hann ei kætast meir, enn hinir, sem það í greipar gekk, sem gátu aldrei notað þeir.

7. Gjafir segist þú gefa þrátt, sem Guð bjóði þér og samvitskan En fátækir af því fá opt smátt, fullríkann tíðt þú auðgar mann.

8. Ef ríkur sér í auðinn skørð, óspilun mun hann kalla það; vakandi ágirnd vinnu=hørð Velgjørníngum hann létta bað.

9. Á þeßu hef eg annað lag, og ánæg=ju meiri þar af hef; það sem eg leifi þenn=an dag, þurfa bræðrum í kvøld eg gef.

10. Auði þú safna ætlar hér, svo ellin ei fái skortinn séð; líka ef barna auðið er, ætlar þeim kannské dáltið með.

11. Barna greyin þér flæmast frá, svo forlaga megi elta skamt; og kannské þú deyir, kall minn þá, enn kisturnar egir full=ar samt.

12. Ekki safna eg eins og þú, enn ellina Drottins ráði fel; og eignist eg børn, það er mín trú, að umsjón hans þeim dugi vel.

13. Børn þín þannig hans umsjón í Að

afhenda naumast vogar þú, svo ega þorir undir því, vid álnirnar medan biudur trú.

14. Þegar á bedi banameins Burt frá þér víkur øndin treg, jeg held þú skiljir ekki eins Ánægdur þá vid heim og jeg.

15. Ef félaus verdur Eingill þú, þótt øll frambjódist farsældin, ekki veit eg hvørt sæla sú Sadt getur allan vilja þinn.

16. Silfur í þína sjódi fá, sá þánki held eg tolli vid, sem ádur var þín eina þrá, unir því lítt þeim nýa sid.

17. Margt veit eg samt hér milli ber, medframm eg til þess dæmi finn Ad ríkur stundum réttsýnn er, enn rángindaa fullur aumínginn.

18. Hvør sem í grædgi safnar seim, og sér og ødrum varnar góds; syndanna þjón og sonur heims, sá verdur fullur hugar móds.

19. Því læt eg hægt ad elta aud, og aldrei skal hans missir þrá. Gef þú mér Drottinn daglegt braud, þó dáltid stundum skorti á.

## Ur bréfi

til Factor G Gudmundsen á Búdum, 1836.

1. Aldaføðurs igdur smá! eins og létt-

ur vindur, farið yfir heiðar há, himinfleygar kindur!

2. Hirðið ei um hálfa og skørð! hægt er ykkur rata; yfir hæðsku brúna børð Bjarga skulið hvata.

3. Hér er norðanáttin æst Og eingin værðer býli, sunnan til við fjøllin fæst Fremur máske skýli.

4. Finnið, mínir fuglar, skjól, og fellið vængi lúða, utarlega á einum hól Yfir kaupstað Búða.

5. Leitið upp á ljóra, hvar Lyung og há er stofa; biðjið þann, sem byggir þar, í bæinn ykkur lofa.

6. Þegar komið hans í høll, hafið síði spaka; þessi skulið orð mín øll Í eyru honum kvaka:

7. Lundin, sjór' og hæð að hal Heillir gjøri magna! Glaður, rór í sælum sal Sit þú, Auður Ragna!

8. Faríøg gángi hug í hag Hrótgands Þýri brunna! Endi'ángan lífsins dag Ljómi gæfu sunna!

9. Eyddur þrautum allskonar, uni ráði

prúdu Hroptagautur haugvardar Hramma meidma Rúdu [1]).

**10.** Hjá mér leidi eg svo um finn Ad saungla bæna letur; ef þau reidast ørløgin; ekki fer þá betur.

**11.** Vara á því má eg mig, um margt ad bidja í einu: þau halda þá eg hædi sig, og hirda ei svara neinu.

**12.** Skjódum leysa fer eg frá Ferdamanna sídan, sem ad reisa um hérød há, og hafa munninn vídan.

**13.** Hamíngjan góda hjálpi mér, hér þó fréttir drýgi, ad í ljódum eingin hér Ur mér flettist lýgi.

**14.** A mig set eg sannleiks nef, svip og augu líka; sídan get eg sett á bréf Søgu lærdómsríka. . . . . . . . . .

**15.** Eru ljóda lasin saung Løgud meir en illa; þennan Odins igdu saung Er því rád ad stilla.

**16.** Ef eg lisi úlfs um ver Orma lokinn

---

[1]) Rúda, eyarheiti, meidmar, dýrgripir: meidma Rúda, kona; Hrammi, Odins heiti, meidma Rúda Hramma, kona Odins, jørd; haugvardur, ormur: haugvardar Hramma meidma-Rúda, orms jørd, gull, þess Hroptagautur (Odins heiti), mannkenning.

bana, fleygi eg yfir fjøllin mér, og finn þá kunníngjana.

17. Mér forláti heilla hár Hagþorn ufla flóa, þótt í fáti þeſsar ſkrár, þøgn eg léti ſóa.

18. Ørløg þraung og efni ſmá Elta daga mína, ſvo að aungu með eg má Mjúkt þakklæti ſýna.

19. Yðar kæru og arfa með, einnig dóttur rjóða, eg með værum áſtum kveð, og árna heilla gróðe.

20. Verið friði vafinn þér, vinur dygða-ſlýngur! Ljóðin við ſvo lýkur hér Latur Breiðfyrðingur.

---

# Støkur.

1. Margar ſkaða meingjørðer Má eg í einu reyna, en allt hvað, Faðir, þóknaſt þér, það eg glaður líð og ber.

2. Hamíngjan fleyg þó hverſi ſýn, hér um glímu tíman, eins óſeig ſkal upp til þín Anda í teygum ſálin min.

* * * *

Af hvaða tægi heimi í Harma ſlagi

finnur, hógvær æ (þú hygg ad því!) hægd og lagid vinnur.

---

## Eptirmæli

vid andlát Jóns Espólíns.

1. Syrtir mjøg ad módur hjarta
meina nidi svo í einu;
kveda tindar andvørp undir
Ísa fjordar sona vísra.
Falla vard fyrir elldri elli
ørduglegur fræda vørdur,
málin þá sem hefir þulin
hvellum ordum Svella fjordar.

2. Öldnum Jóni Espólíni,
er sem þjódin nefnir Fróda,
dagar hvurfu ad skapa skersi;
skadinn svall um hjørtu allra.
Sjøtíu ár á vángi vorum
vann ad fræda málum þannig;
lengi hefir annar eínginn
einn svo vitur þjónad ritum.

3. Lifir dánum ordstír æfa
ofar jørd í háfu losi;
verkin hans hin vísdómsstyrku

vara medal þjóðar skara.
Sendi aptur ossu landi
Alda stýrir spekivaldur
þægan bróður, þarfan fræðum,
þeim safnsnjallan, sem er fallinn!

---

## Gudmundur Prófastur Jónson.

1.

Tímarnir eyða øld
ad bodum skøp-
unar;
eikin, sem ára fjøld
áverti skæra bar,
má eins ad lokum
lúta
ímóðurfadminn Fjør-
gynjar.

2.

Sólin um daga sér
sí-sleypir geislum af,
vorjørd þá veltir sér,
hún verdur ad líða í
kaf —
Svo hvarf Gud-
mundur Gódi
nidur í dimma haud-
urs haf.

---

## Grafminning.

1.

Svo tíðum sólu ský
svartleitum vængjum
slær;
svo hnígur hafið í
heið brún af degi
skær;
svo lætur vetur visna

ilmgresi, best er unt-
um vær:

2.

Svo faldi lík í lód
og líf þad, er unnum
mest,
Jónsdóttir Gud-
rún gód,
sem gæddi heillin flest;
á sumri sælla daga
blóma strjálandi lil-
jan létst.

3.

Dýrust hún dæmin
gaf,
sem dóttir og ektasljód,
módurdygd allteins af
øll sýndi merki þjód,
elskud af øllum kunn-
um,
því øllum var hún
ætíd gód.

4.

Svefnhøfgi sé þér
vær,
svefn ef ad lengir þú,
og lífsins ljómi skær,
lífs til ef deitstu nú.
En minníng þín med
oss lifi,
því dæmin best oss
býdur sú.

---

## Eptir barn.

1. Þessi fyrir þekkíng, bæn og trú (Þad var Breidfjørds sonur og hans nafni) Var þjá oss um viku skeidin þrjú; vonin lofar samt ad fremur dafni.

2. Hvørnig sagdi helgur Frelsarinn? hans mér skulu jafnan ord í minni: „kom sem

barnid blídt í himininn, búſtad ella fœr þar aungu ſinni."

3. Lít þú, barn mitt, lítil føgur ſtrá, á leidi þínu ſem á hauſti dána; dupti ſínu dafna þeſsi á, døgg og ſól þeim fjør og blóma lána.

4. Líka muntu ljóſin aptur ſjá, og limi þína úr dupti reiſa frána, ſumarmorgni ſœlulífsins á, og ſólar hœdſtu vid þér ſnúa brána.

---

vid banaſœng

Gudrúnar Eiríksdóttur,

ſyſtur Høfundarins.

1. Glaumi og gamni frá Ged mitt nú verdi hrœrt! Sœng þinni, Syſtir, hjá Sé mér ad búa kœrt! nú þó þig helgjørn hafi Van-heilſa þúngum ſárum ſært.

2. Ógnarleg ſjón! eg ſé Sveimandi daud-ann ad; þér eingin værdar ve Veitaſt í þeſsum ſtad. Hvurr má hans frekju flýa? Fylſkni vard aldrei fundid þad.

3. Ekki þín edla dygd, ekki þín hrauſta trú Á hœdſtan herra bygd, né hjáſtodin vina

nú, fordar þér þessu feti; kaleik skalt drekka þenna þú.

4. Blóminn þinn burtu flýr, og brosin af vörum kær; þrekið til þurðar snýr; þín rödd, sem var svo skær, titrandi voluð varla Andvörpum sárum orkað fær.

5. Börnin þín hvílu hjá Hafa þó athvarf sitt; veit eg hvað viknar þá Viðkvæma brjóstið þitt. Hvílíkir þánkar þreyta Lífs örmagnaða hreysið hitt.

6. Ættmenn og elskugann Og ektaborin jóð, mest sem þín öndin ann, öllum af hjarta góð, verða nú við að skilja, mun það ei kvelja brjóst og blóð?

7. Traudlega meira má Mold kveljast daudleg nein; líkama' og öndu á Einsomul daudamein, sig hafa samandregið, og þú mátt bera öll þau ein.

8. Já, þú mátt alla ein Dryþjokud reyna pín; barna og vina vein Viðkvæmni særir þín; einginn má öðrum bjarga; veraldar öll svo von hér dvín.

9. Snú því með allri önd, á Endurlausnarans fund! Líkamans leystu bönd lémagna í þessum blund! Hér varð þinn ára endi, hér kom þín dimma daudastund.

10. Önd þín, sem aldin rós, mun end-

urlifna brátt; jeg veit ad líffins ljós Loga þér skært og hátt. Far nú í fridi hèdan, þángad sem lífid ædra átt!

11. Enn þá er ætlad mér, armædu strìd ad há; eflaust á eptir þér Eittsinn eg leita má. Þá ef eg þig má finna, bætir þad sælu eingils á.

---

## Utleggingar úr donsku.

### 1. Skildt fra dig ved Bølger, Bjerge, Dale.

1. Bægt frá þér ad baki fjalla og dala
bøkkum Dónár fjærliggjandi á
vil eg láta í vísum hjartad tala
vid þig þad, sem túngan ekki má.
O, hvad gladur eg þig mundi finna
og árna heilla vid þín lilju bønd,
eg feginn hlut í føgnud tæki hinna
og fúsa rètti ykkur bródur hønd.
2. Frá høfudborgar hóp og solli galda
til heimakynna þánkinn bendir mèr;
hèr vid nordur — himinskautid kalda
hugar ímynd glada leikur sèr.
Kæti sé eg kitlar augad smáa

og kinnum þínum glóða litinn á,
þá þú krýpur Kóngi Dýrðar háa
og kona vígist Dana meyum frá.
3. Vesta mær! þá brúðar skart þig prýðir,
í brjósti glöðu hjartað slær svo dátt.
Yfir borðum ósk þá syngja lýðir:
„ædstu gæði hjónin reyni þrátt!“
Hvísli þér þá einstök rödd við eyra
og þín fótspor blessi jörðu á,
ástúdlega hana virðstu heyra!
hún þér kemur Dónár — ströndum frá.
4. Hér til líf þitt líkt var morgun-blundum,
og leiðar þinnar himinn ætíð blár;
ei þín vegna', en annara á stundum,
eg þér fékk að sjá á kinnum tár.
Prísa forsjá hans, er býr á hæðum!
heiður æðsta föðurs kisstu dátt,
sem þér léttir sorg og hugarmæðum,
á sælla skeiði leiðir aptur brátt.
5. Brátt mun Hýmen [1]) blómsturkrónu
tvinna,
blíðt og vefja um þitt ljósa hár;
fyrir mitt blað þú færð að sjá, sem kvinna,
flokki vina glöðum í þú stár.
Skýlan má frá fyrri dögum falla;

---

[1]) Hýmen, hjónabands goð hjá Grikkjum.

einn fegri, spánýr leikur opnar sig:
minnst, að stétt þig merkilegri kallar,
má því hennar byrdi ei fæla þig.
6. Ungdóms kinnin ódum fölna hlýtur,
æskuvor er stutt, enn fögur, tíð;
tafalaust voit tímaglasið flýtur,
týnist styrkur, ellin kémur síð.
Strax þá mæta stuttir, kaldir dagar,
slóðin líffins verður dimm og þraung;
ásikær maki okkur best þá hagar,
æfinnar að létta þúngu gaung.
7. Hvað er annars æfi vorrar kedja,
einn ef liður þar ei væri neyð;
tíðin oss ef einlægt skyldi gledja,
af því sálin mundi verða leið.
Tregi því og teiti ávalt spenna
tengdum höndum jarðar sona stig;
tvöfaldt skærri skal þín sól fram renna,
í skýi þó hún stundum feli sig.
8. Vér erum börn, um veikleik allir kvörtum,
hvör verdur sinna girnda bera þrá;
hógvær engill ykkar kenni hjörtum!
annars brestum hvörju sneiða hjá.
Þá skal ykkur vetur líffins vera
vorsins fagra líkur morgun tíð,
og fyrir sjónir sæta minníng bera,
sem að leifir æskan fyrri blíð.

9. Hjartad slær, er hørpu tónar linna,
heitt þín vegna brjóstid æ skal slá;
þar sem margir þyrna sára finna,
þér mun tídin ótal liljum slá.
Ljósin Hýmens lýsi jafnan ydur,
lík heidbjørtum, þægum sumardag;
aldrei, aldrei ykkar hjarta vidur
aldurskapa bløskri reidarslag!

## 2. Trindt om os lyder englemild.

1. Umhverfis hljómar engil blíd Oss náttúrau, og sorgum varar vidur: med tárum eigi æfi sóum tíd, Hvøreinn er sinna meina og heilla smidur. :,: Hvørt þitt spor med heilla liljum strá Fyr hnígur saung og leik og kossum frá :,:

2. Hvørr fann einn vin og hrósar ei Af hjartans rót: hvad er svo dýrt, sem vinur! Hvør fellur djúpt í fadm á sinni mey, svo frá hans brjósti sorgin øll ei hrynur? :,: Hvørt þitt spor, med heilla liljum strá, Fyr hnígur saung og leik og kossum frá:,:

3. Vid hvort eitt spor á lífsins leid, Ein lilja fríd, nýsprottin bros frambýdur. Nýt 'hana' í dag, hún deyr um næturskeid, Sem dagar þínir, hljódt hún burtu lídur. :,: Hvørt

þitt spor með heilla liljum strá, Fyr hnígur saung og leik og kossum frá :,:

4. Brádt stanfar, vinur, vegur þinn, Hin vissa gröf þinn grát og gleði hylur; Sá einn með hug í hana gengur inn, sem holla raustu náttúrunnar skilur. :,: Hvört þitt fet með heilla liljum strá, Fyr hnígur saung og leik og kossum frá :,:

---

## 3. Danevang, med grønne Bred.

1. Dana grund, með græna strönd, Girdt þeim bjørtu vogum! Fögnuð hjá þér finnur önd, og frið í skóga bogum; :,: Fugl í skýum kvetur kær kempu yfir haugum; í dölum brosa vorblóm vær, Vina renna augum :,:

2. Dana grund við gróðurlönd Gömlu feðrum hlúði; sætt þar hitvar sona önd, sem þeim vaggan drúði. :,: Danskra feðra fótspor við Falin eika skýli, Trúskaps dúfan finnur frið, Og fost sameiníng býli :,:

3. Einn er Faðir okkar hér, Eina hofum móður; Danmork það hin dýra er, Dana son vor bróðir. :,: Bræðra flokkur faðmist dátt I-fögnuð ástar góða; Föð-

urnafn þitt heiðrist hátt, Hildíngs ættin góða! :,:

4. Heill, þú fjóli! heil, þér lønd, H'ás við skærn voga! Gródur eyar! græna strønd! Girðíng skégar boga! :,: Hér er dúfan gamla grá, Grænir fedra haugar, Hjørtun trú og hædin blá, Hrundir snotrar bauga :,:

5. Hér við saung og hørpu slátt Hofum yndi og gaman, Hér við skulum blunda brádt Bródurlega saman. :,: Skulum lifa og látast hér, líkt og vorir fedur: Lifi víf og vina hver Vángi Dana medur :,:

6. Vina einíng vaki trú, Vafin eika skjóli! Hér hún vinleg bjó sér bú, Breytir ekki stóli. :,: Tróninn hennar hér skal stá, Hvar frá einginn víki; medan hjørtun heitu slá, hún og gledin ríki :,:

---

## 4. Lygtemanden vanked' om.

1. Hu'dumadurinn fór á flakk svo fródleiks nædi yndi; hann hæddi þoku, hríd og svakk, og hló ad køldum vindi.

2. Hoppar hann nú og hvatar sér, helst því gaman sókti; Huldumadurinn hvar sem fer, í húmi reima þókti.

3. Gamalt fann hann gestahús, glædd

þar ljósin skína; Hirðarar, sem hampa krús, heilafullir búna.

4. Eru að tala um reimleik, þó einginn hræðslu mæti; sögðu alla anda reyk, og eru nú menn á fæti.

5. Huldukallinn hljóp þar inn, hann fyrir borði dansar; gestir fengu guðlegt sinn', grobbna túngan stansar.

6 Hvørr tilbað, þann helgar mest, horna gleymist smekkur; en Huldumaður við sopann selfst, og sig þar fullan drekkur.

7. Reikar síðan rekkum frá, sem reyndu bænar notin; hvørr vill taka horn sitt þá, en horn eru gjørvöll brotin.

8. Huldumaðurinn vaga vann Vínfullur til gátta; í stofu húsi stansar hann, þar stúlkur eru að hátta.

9. Marlý fagra myrti ljós, sem mundi kveykt jafnóðum, því Huldumaðurinn hjá var drós, og hreifði aptur glóðum.

10. Unga mærin aptur þó Eldin slökti raman, en nú fær hún einga ró, né augu látið saman.

11. Hitnar fljóð, sem eldinn í Öll hún væri fallin. Loginn brjóstið þaudi, því — þar sat Huldukallinn.

## 5. Konstner, min Pige du male.

1. Stúlkuna mína þú mála, enn, meistari, eg øfunda þig; því augað má ei skuna bála, eins og hún brosi við mig.

2. Mála frá toppi til táa, og tónanna dillandi hljóð, kærunna kurteysa og smáa, þá kyssir sín nýfæddu jóð.

3. Mála mig hjá, eptir hæsi, með handleggin vasinn um líf, gleymandi øldum og æsi, nær umfaðma kærasta víf.

---

## 6. Lad dadle Kvinderne hvo vil.

1. Eg kvenna last ei líða vil, ei lífið þeirra án má vara; eg vil, svo lengi' eg lifi til, þær lofa, elska og forsvara. Hvørr var, sem vildi fæding frá, Svo fús og mild oss børnum sinna? Hvørr stendur síðst með huggun hjá? Hin tryggdaríka kvinna.

2. Hvørr hvíldi oss á armi blídt, Pá æsku svefninn nádi beygja? Hvørr bar oss undir hjarta hlýtt? Hvørr vildi fyrir okkur deya? Hvørr leiddi fyrst til ljóssins oss? Hvørr lét oss til sín optast minna? Hvørr gaf oss mjúkan móðurkoss? Sú mannelskandi kvinna.

3. Mín sæla kona (eg sanna má) Sinn líka eingan eptir skildi; við flugumst heldur aldrei á, utan þegar eg drekka vildi. Þá spilti hún þeim besta bjór, Og braut í parta flösku stinna. Til hefndar því til herrans fór Mín holla sæla kvinna.

---

## 7. Den Nattergal synger i Midnattens Stund.

1. Náttgalinn sýngur um svartnættis stund, Hann sýngur um ástir og gleði; undrar hinn hlustandi aðgjætna lund, hvað indælt og sætlega hann kveði. En veiðimann snidugur vill þess eigð, hans vilji er, fuglinn að taka og ná. :,: æ, munið þann náttgala, meyar! :,:

2. Svo gerir hann fuglinum gildrur og net, grunar ei sakleysið hrekki; lokkaður þángað hann flöktir þau fet, og festist við gildrunnar hlekki. Veiðimann hvatar svo heppinn í bygð, en hljóðlaus er fuglinn af ótta og stygð. :,: æ, munið þann náttgala, meyar! :,:

3. Nú læsir hann fuglinn í forgyltum lár, og fyrir sig vill að hann kveði, en fáng-

e'fi og þvíngun er finninu sár, hans sáung er nú lokid og gledi. O, flulkur, þeim fugli mjøg lík er vor lund, vér leikum og dillum, ef frjáls er vor mund. :,: æ, munid þann náttgala, meyar! :,:

---

## 8. Lille Clara, bliv ei vred paa mig.

1. Rósa litla, reidstu ekki mér, þótt rauli barnalega eg vid drósu. Sé eg barn, þá heint eg líkist þér; bygdast nokkur vid ad líkjast Rósu?

2. Hvørnig sagdi hædsti Frelsarinn? hans mér skulu jafnan ord í minni: kom, sem barnid blídt, í himinn, búftad ella fær þar aungvu sinni.

3. Gef mér aptur æsku minnar tíd, úngdóms leiki og blómstur hennar, Rósa! Sú var kæti saklaus mér og blíd, sælli stundir vil því aldrei kjósa.

4. Litli eingill! ljá mér þína mund, leid mig þinn í barna — himinn — sælinn, Og, nær dyrnar opnast þér, mitt sprund! úti lát mig þá ei verda dvalinn.

5. Sumardaga dansinn stillum þá! hjá þér mig í hópnum léttu vera. Helst eg

fylgi fetum þínum smá; fleiri við ei skal eg dansinn gera.

6. Litla meya! ljá mér fylgd um grund; leiki þína kendu mér að iðja! Skáld þitt vera vil eg all i stund: vertu þá mín holla kvæða — gyðja!

## 9. Yndig og rig paa Fryd er Jorden.

1. Yndi og friður alheim vefur, einn mannhatarinn neitar því; þar sem hinn vísi hófið hefur, heimskinginn ratar villu í; :,: reynist æ satt, að rækta má Rósirnar jafnan þyrrum hjá :,:

2. Hvörr leiti sér að sorg og kæti Í sjálfs síns barmi, og nær sá frið; lilju ei tárum ljósa væti, sem lífsins götu stendur við; :,: Bræðium að gegna, blómgast sú, en bráðum aptur visnar nú :,:

3. Svík ei þinn vin, né víf í tryggðum! verka með bræðra hoppin fljó; þá áttu meira mildings byggðum, þá mjúk og blíð er sálar ró; :,: ó, hún er æðst af heimsins mund, hvörja nótt gefur væran blund :,:

4. Þá máttu njóta þrúgna brunna, þá er hún sæt og glaðværleg, þá skal þér meyar augað unna, og hennar hjarta velja

þig; :,: Þau launin best af hæðum þá, heimsins þér prýða götu þá :,:

## 10. Langt meer end Guld er Druen værd.

1. Vínþrúgan gulli vænni er, volæðið flesta sætir; hún tossa hausum lærdóm lér, og lesti hjartans bætir; :,: dolfföllnum gefur hún drengjum móð, og dauðþreytt vermir öldúngs blóð :,:

2. Gremjunnar þræl, ó þrúga kær! þú traust og svölun greiðir; steinhjörtu kölð með krapti slær, til kærra ásta leiðir; :,: ill ráð þú lætur opinskár, og afþerrar föðurlausra tár :,:

3. Í víntrjá — skjóli eining stár, upphefð og titlar víkja; þar sérhvørr öðrum er jafnhár, hinn armi með þeim ríka; :,: ó, vín! til þess að veröld dvín, æ vari krapta undrin þín :,:

## 11. Naar man er tredsindstyve Aar.

1. Hvørr sem er sextugs aldri á, elskar flöskur, en hafnar meyum, nöldur æ hjá þeim nóg að fá, notar þá lítið, hvað vér

segjum; :,: en gleraugu og parruk ei glepja neinn, sitt glas í ró hann tæmir einn :,:

2. Ef kærleiki blossar um höfuð gráhært, hún sem það tendrar, er dýldin og skitin; og mænir hann eptir kossi kært, kiprar hún hrukkur um nasir og vitin; :,: hvurt sína tókta fremur sljóð, en slaskan, hún er ætíð góð :,:

3. Vín, fremur gulli, virðíng fann: valla eg held neinn gullið drekki; vín gjörir manninn virhollan, vín styrkir hugann, en gullið ekki; :,: svefndrykkur vínið væri er, að verja lífsins sorga her :,:

## 12. Den Mand, som Plutus gavmild satte.

1. Sá mann, er Plutus setti rífur Silfurs að geyma tunnur þær, hann sína skatta saman drífur, og saddann aldrei púnginn fær.

2. Hans akrar, skógar, engjar, jarðir, er' utan mál og tölu og prís; hans garðar, lundar, góts og hjarðir, gjöra landið að Paradís.

3. Þarn heimskir rekkar ríkan segja; eg reikna lán hans armóðs kjör. Þú ein, mín kærsta

útvøld meya! þú eina gledur Sólons fjør.

4. Eitt gull — ei ríkdóm — eg vil vinna, eg armur fæddist, líka dey; einasta kann eg audlegd finna, í ørmum þínum, besta mey!

## 13. Naar i et Fængsels mørke Gjemme.

1. Þegar í fánga fúlu ranni Fjörtjón stofnast þýngismanns, býdur náttúran blíd-leg manni Bøl og naud ad aumka hans. Þegar ad kløgun hans fer byggja, harma eg þá og klaga fer; Mamma, lát þig þad, mín, ei styggja: Medaumkun þad, en ást ei, er.

2. Þegar eg hlusta, hvar hann sýtir, Hitnar mín kinn og brjóstid slær; fari eg burt, þad hót ei hlítir: heyri eg til hans nær og fjær. Hvurgi má eg svo hæli þiggja, ad hans ei kløgun fylgi mér. Mamma, lát þig þad, mín, ei styggja: Medaumkun þad, en ást ei, er.

3. Adur saung hann yndisblídur; og eitthvad sætt (eg veit ei hvad) þreyngdi minni sál ei sídur; sífeldt man eg kvædid þad. Vid þau ljód mín hlýnar hyggja, hvørgi þessi leidist mér. Mamma, lát þig

þad, mín, ei skyggja: Medaumkun það, en ást ej, er.

## 14. Til Vaaben! see, Fienderne komme.

Til vopna, mót andskotum ydar! í alvepni, Norðmanna krans! Titrar vid trumban ófridar; trodi hvørr stálhrídar dans! Þars glóandi úngsveinar æda, þá Engelsku líta og hæda. Upp Danir! og fellið ad fedranna síd, fyrir vorn konúng og Nordbúa frid.

## Skáld Laun.

1. Skáldunum lukkan hún laumar sér hjá, ljód dísin mætir þeim brosandi þá, hún sálina eftir mót ad = køstum jardar, eldurinn heilagi bústad sinn vardar, geislar til himins sér glóandi skjóta, gremja og sorgir þar ná eigi róta.

2. Skáldid, í ljósi sem logar svo skjært, í ljós gat þá hulduslu dómana fært, í því hann gegnum sér afgrunnin rydur, ása í bjørgonum leysa hans kvidur, fram kallar aptur til lífsins og ljósins Laungu sofnada til vansa og hróssins.

3. Í ljósi því skodar hann skapada hnetti, skilur loptbúandi sýngjandi fréttir, sjáfarins buldur og skýanna skridur, hann skygnist um mannanna huldustn itur, ástanna sætleik og einmana trega Ungmeya brosinn og rodmann fallega.

4. Hvur mun þá launa því Skáldinu skýra, sem skilur og þekkir svo hlutina dýra, þad hann oss leidir til litinna alda og lengra fram eptir, en náum vér halda, þad gérir hjartnanna hulda tilfinníng og heidur, sem fléttast um Skáldanna minníng.

## Til Smámunanna.

1. Veslíngs bók! eg vid þig skil, vil því rádum býta: far nú, eins og fjadrir til Frekast meiga hlíta!

2. Hvar þú mæta mátt á veg Mønnum eda kvinnum, vertu øllum ástúdleg! aldrei breyt því sinni' um.

3. Komir þú í høfdíngs hús, þar hærri bækur skína, gladlynd, djørf og fridarfús Flyttu rædu þína!

4. Audmjúk vertu og lítilát, lán þad mørgum gefur, því fadir þinn í fata slát Fært þig ekki hefur.

5. Komir þú að kotum smá, þar kotúngarnir sitja, allteins skaltu inn í þá Astúðlega vitja.

6. Kættu, eins og kanntu best, konur bæði og sveina; sorgir manna og sælu brest Að sefa skaltu reyna.

7. Vertu blíð og viðfeldenn, víki frá þér kali! Varast þú að meiða menn Í meiníngum og tali.

8. Ef gumar þig af götum il Glóðum verma hvarma, legðu þig þá líka til Að lokka frá þeim harma.

9. Hvørr sem vill þér segja sann, og sýna eigin lýti, auðmjúk veit og heiðra hann, en hreifðu eingu víti.

10. Ef einhvørr vill á allan hátt A þig lygðir bera, soddan þola síðleg átt! því sama má eg gera.

11. Leiðtu hjá þér lastið flest, á leiðinni þó mæti. Tvennt fer úngum bókum best: blíðlyndi og kæti.

12. Ræktu minna ráða hvað, reynast þau að vonum. Far nú héðan heil á stað, og heilsaðu kunníngjonum!

# Frásagan
# Emilíu Raunir.

## Fyrsta Ríma.

1. O þú kjærleiks hyrinn hár, sem hjörtum dillar úngum, þér sé lof um alda ár Af allra sképna túngum!

2. Sæl þín minníng sífeldt kann Sæta þánka örfa; án þín madur einginn fann Ánægju fullgjörva.

3. Handa þinna hjúkrun mæt, ad hjartans fylsnum leitar: ein er mjúk en önnur sæt, en þó bádar heitar.

4. Því skal byrja, þér til hróss, þátt í stutt-um greinum Týri snörum eldа óss, svo ama gleimi meinum.

5. Ljúft er flytja Ljóda klid Lundi grettirs eya; medan sit eg vísur vid, vak þú hjá mér Freya!

6. Kendu mér ad laga ljóð Lofn um gylt-ra kransa, svo hennar berist hrós um lóð, sem hrislar Sólin glansa.

7. Þú mér seigir Sannleik þann, sem minn Vinnr bidur; svo skal seiginn Formálann fella þennan nidur.

---

8. Einn í Þýzku veldi var (viljum þar ad snúa) greifi nefndur Gustaf Zahr, gnægtir átti Búa.

9. Flest ad honum hnígur dád, hrós því fær um sveitir; katólsk trú er kennd um lád, sem kappinn h'ýdni veitir.

10. Þannig honum lukkan lézt Lidsemd alla bjóda; konu hafdi frægur fest, frída bædi og góda.

11. Aftir grœddi lands um lód Loga Sólin dýa, heillum gædda hofdíngs fljód Heitir Emilia.

12. Sunnu marar vesja var Basin dygda gróda, eins hún bar af ødrum þar, og eiri ljósin flóda.

13. Falda Hlíd ad flestum má Frídleik kalla mikla, hjartans blídu brosin á Blómst-ur-vørum sprikla.

14. Eingin líti andlits bar, að svo mætti finna: fagur = hvíti farfinn þar Faðmaði rósir kinna.

15. Vísið snara vænstan bar Vørt, sem um má ræða: áśýnd rara vottur var Vænstu hjarta gæða.

16. Meinin kunni fá að fá Fin í kunnum ranni, einum sunnu sjáar Gná, sínum unni manni.

17. Greifin líka ástar or Auðhøll slíka metur, unni síkja elda Vør Øllum píkum betur.

18. Attu bæði úngan svein, ástir við sem líma; þó var klæða Prúður hrein Púnguð annan tíma.

19. Beggja vara høppin há; en hverfum nú að þessu, til sem bar þá einni á Allra helgra messu.

20. Hesta manninn hadda Gná hvata ferðum biður; keyra hann til kirkju á, sem katólskra er siður.

21. Vís svo tredur vagni að, veginn keyra býður; getur séð úr Glugga það Greifinn, hvar hún ríður.

22. Eingin skildi efni á því Yggur handar dripta, hvað nú vildi Herrans í húsi kvendið skripta.

**23**. Peguinn gætti þesz í ró, því svo mætti anna, eitthvað grætti þýða þó Pánka hætti svanna.

**24**. Vissi linda væna Grund Veitir flóða eima Eingar syndir sér í lund Siða fróða geima.

**25**. Þannig tér með sjálfum sér, sem þó hræðast mundi: eg skal géra ómak mér Eptir læðast sprundi.

**26**. Svo eg heyri hennar skript, heitorð, bæn og særi, bauga Eiri ama svipt, óska eg flestum væri.

**27**. Hér þó framur heyri raust, hýrrar Prúðar bauga Mitt er gaman græðskulaust, við góða brúði að spauga.

**28**. Kappinn læðist Kirkju til, í krókn-um stoðu tekur Par sem flæðar bála bil, Bæn og skriptir vekur.

**29**. Létta bíður þánka þrá Púngri blíð-ur svanni, kæran uidur krípur á Kné fyrir gømlum manni.

**30**. Í døkkva færist fatið þó Friður høkla vidur Púng með læri líka dró, Sem landsins þá var siður.

**31**. Greifinn leinum lúrir í; við litar-døkkva manhinn Hrínga Rein hann heyrir því Haga máli þanninn.

32. „Ydur, Fadir, satt eg sver Svo sem „skyldan býdur, þessi madur úngur er Og „afbragdslega fridur.

33. „Sex hann vikur sérhvørn dag Í „svefn herbergi mínu, undi kvikur ástar hag, „eins á stóli og dýnu.

34. „Medan sat eg mínum hjá Manni „ad bordi laungum, vísad gat mín þerna „þá Þegni ad leyni gaungum.

35. „Svo fram leid hin sagda tíd, sætir „fundir vara: þessa reid eg þá um síd, „þernu burt lét fara.

36. „Hvad til meina Mærin vann, mér, „eg nádi dylja, eins því leyna mátti mann „Minn, sem allir skilja."

37. Þegar greifinn heyrir hér, hennar skripta|málin, bitur hreisir heiptin sér, hitnadi brjóst og sálin.

38. Vid ad heyra hennar tal Hygg eg Freyrum spánga Mundi fleirum hér, en hal, hitna um eyru og vánga.

39. Beittann taka týgil knif Týrinn vildi glóa, þar med sakast láta líf Ljóma Hildi flóa.

40. Gleymdur heima hjørinn er, heiptin kyrd þó banni, þetta seima vidi ver Í vígdum myrda ranni.

41. Heim hann fljótast fer um reit, fet-
ud skjót er leidin, til sín hót hann valla veit,
veldur ljóta reidin.

42. Hvatast lætur hestum ná, hugar
þrætu frekur Vatna glætu vidur á Vagni
sæti tekur.

43. Þjódir bad þau bodin ný Brúdi
madur flytja: segist þadan sveitir í, sinna
stada vitja.

44. Hédan ódast hýdir sá, hestar tródu
grundir; kom hin góda kirkju frá Klæda
slód þær mundir.

45. Huggud mær, í huga vær, heim sig
nær ad færa; Bodin fær, þá bølid slær,
brjóstid ærukæra.

46. Leiddi huga hrundinn smá, hvad med
nógum pínum Sárnaudugum fadmi frá
Flýti manni sínum.

47. Þvílíkt undra vísid vann, vakna
mundi tregi: svona skundad heiman hann Hef-
ur fordum eigi.

48. Gedid mest þad gjørdi tvist, grandi
sprund sem vefur: ekki besta kæru kist Korda
lundur hefur.

49. Húsmeistarann kallar kær, krefur
manninn frétta; hann í svari var óvær, vík-
ur samt á þetta.

50. Alla Greifans æfiftund, eg nam hon-um þjóna; aldrei' hreifa harma lund Hirdi sá eg fróna.

51. Nú var gledibragd hans breytt, boginn ára sagdi, aungvan kvedur, ekki neitt Ord til mín hann lagdi.

52. Hann mig vid í sérhvurt sinn Sagdi, er reisti hédann: „Guds í fridi, gamli minn, „gistu nú á medan."

53. Reindi eg mest ad ræfkja hátt, rík-ur svo mín gætti, en hann létst þad akta smátt, ekkert svar mig kætti.

54. Hedan skeida lét um lód Lánga vegi ad teygja; hann var reidur, heillin góð, held eg megi segja.

55. Varpar anda þúngum þá, þókti vand-ast sagan, silfur banda gyltra Gná Grét þegjandi bagann.

56. Hvurnig svanni málid mat, mædd í þánka hreysi, ei hins sanna getid gát, en grét í rádaleysi.

57. Ástar sár og saklaus ønd Sist má skynja hrekki; þerdi tár med hlýrri hond, hún sem þekti ekki.

58. Nær skal flýa fávitskan Og fegri stundir bjóda? nær skal hlýa hamíngjan Hugga sprundid góda?

# Önnur Ríma.

1. Þó mér stundum finnist fátt um fína veidi, stökum med eg stundum eydi, stríd úr huga burtu leidi.

2. Medan vekja vinir mig til vísna sagna, og háttum mínum hjörtu fagna, hádúng væri mér ad þagna.

3. Íslendíngar unnu mínum ódi laungum; ætíd skal því eptir faungum Örva þeirra ged í saungum.

4. Þegar vann eg letur laga ljóda sagna, launum mátti fínum fagna Fljódum hjá og þorra bragna.

5. Fólkid medan frædin vidur festir nædi, óska' eg minn um Ísafoædi Ása mjadar straum-ur flædi.

6. Öllum svo minn ódur skemti aldar sonum, veki yndi kærum konum Í kjöltu dilli smámey-onum.

7. Vini þeim, um vísur bad á vetrar dögum, leidindin í léttum brögum Leidi burtu mál af sögum.

8. Því skal ódum herda hljód og halda á spödum, dikta ljód af dönskum blödum Dreifi glóda stjörnu hrödum.

---

9. Þó að fái gullhrings Snä að gráta og klaga Nærri bæði nótt og daga, náði Greifinn fram að draga.

10. Finnur einn sinn fornan stað sá flýtir tregi, þar hann lætur lokið vegi Loksins seint á þriðja degi.

11. Um þær mundir sólin sæl hún sieg til heiða, og uppúr hafsins hylnum breiða Hárið á sér fór að greiða.

12. Gulli fegri geislum hún um grundir fleytti, borgar turna blóma skreytti Blóðin úngu rósa heitti.

13. Um þann tíma Greifinn gekk í garðinn fríða, réttvel fagnar runni skíða Ræðis maður og konan blíða.

14. Yfirmaður og akra hirðir eru fljótir Og garðkonan með gleði hóti Greifanum að taka móti.

15. Berhøfðaðir bragnar gánga að báðum hliðum, beygðu sig í baki og liðum, sem birki-grein í vinda hviðum.

16. Stama fara einhvur orð, sem ei má skilja, að baki sínu hatta hylja Og hausnum fegnir leyna vilja.

17. Greifinn þessa gætti fátt, því geð í honum Púngt var mjøg, enn þó að vonum Þessi fylgdi bendíngonum.

18. Inn í sali glæsta gengur geira sveigir, í hvílu sér með sýlu fleygir Við frukti manna øllu þegir.

19. Óskar hann sig ýtar láti einan vera; þeir að sønnu þetta gera, enn þá nam fleiri að garði bera.

20. Fógetinn með flokki bænda ferð vill anna, í staðinn kemur múgi manna, mußur báru hátíðanna.

21. Prestur fylgði flokki þeim, sem sýsir skarta, hafði um sig, hempu svarta Og hvørgi ásýnd litarbjarta.

22. Priggja horna hattinn bar, sem herm-ir stefið, hvaßann eins og uglu nefið, sem ekki var þó prýði gefið.

23. Hafði þeßi herra lítið hrós um bygðir, sladur kunni laßt og lygðir Lét sér heldur gleymaßt dygðir.

24. Bænda ástin aldrei við hans æru toldi, bólgið dramb í blindu holdi Búkurinn litli valla þoldi.

25. Hofdíngjarnir héldu hann vera hálf-ann dára, en sóknar-børnin illan ára, sem opt þeim veitti kúgun sára.

26. Hélt nú undan hópi bænda hempu vofan, hatta reka allir ofan, af þeim fyllist Greifa stofan.

27. Mítur = njótur munni upp til mælsku lýkur, herrans inn að hvílu víkur Hóstar nú og granir strýkur:

28 „Hávelkominn hávelborni! háaktaði! hátíð ver um háa staði; hárómaður svo taladi:

29. Hér eg kem í hópi með þá heimsku dóna, ydur og mér sem eiga þjóna Eptir sínum mætti flóna.

30. Þó þeir hjá mér Helgidaga hafi grautinn, góði herra, það er þrautin, prís- ast ekki galin nautin.

31. Gjøldin ekki géfa þeir með góðu heldur; heimska því og vondska veldur, vít- is mun því búinn eldur.

32. Greifa þetta gramdist tal; hann gjørði svara: allan þennann skitna skara Til Skrattans láttu með þér fara.

33. Aptur á bak þeir allir gánga út frá honum, Gugnar flelstra géð að vonum Gleyma sumir hneigíngonum.

34. Uti þegar andrúm fá, þeir yrðast fara; allir taka senn til svara: svívirðing er þetta bara.

35. Skrúða staurinn skæting lét og skensin fjúka, nøldur við hann bændur brúka, burtu sínar leiðir strjúka.

36. Noldrandi þeir nídast heim í nátt-myrkronum Fóru ad segja sínum konum Sög-urnar af mannfundonum.

37. Árla morguns úngur greifi allann stadinn Skoda tók af heiptum hladinn, í húsin flestu sjálfur trad inn.

38. Hulinn gáng ad húsabaki hitti svinn-ur, járnhurd mikla fyrir finnur, fólkid bad um lykla stinnur.

39. Upp var lokid hárri hurd af höld-um snörum, gnaudar hún á gömlum hjör-um; greifinn veik ad dyra skörum.

40. Eydilegann ódaun vann þar út ad leggja, holud gólf í hvolfi veggja Hlymja þúngt vid sporum seggja.

41. Hálm í einu horni geymdi húsid stóra og myrkur svarta múra fjóra, menn þar aungva sáu ljóra.

42. Padan burtu greifinn gékk sá grimd-ar kéndi Pénara nú med sedil sendi Og sínu bad ad færa Kvendi.

43. Bord af tré og bekk hann lætur bera í kofann, breidir hey á hálminn ofan, hýsir ekki fleira stofan.

44. Pénarinn nam bréfid bera bestu sprundi Fagna honum mærin mundi, mest sem þrádi kæra fundi.

45. Liljan vildi ljóma raſtar leſtri flýta, bréſid opnar höndin hvíta, hvará þeſsi ord má líta.

46. „Madur ſá ſem bréſid ber, mín bod „þad eru, á minn fund til viſtarveru, víſ= „ar þér á ſvædi beru".

47. Klæda gná var þúngud þá, til þeirra funda Ferdum má ei mikid ſkunda, mánudi á hún var ſjöunda.

48. Þótt ad bréſid þurlegt mjög um þetta væri, ſig nam búa ſvanninn kæri, ſem til beſtu veitſlu færi.

49. Heſtar vinna högum ſtinna hófa ſlaginn, ſlotid finna fjórda daginn, ſljódi ſvinna gékk í haginn.

50. Hús og granna hitti ſvanni, hýrnar litur, finnur manninn mærinn vitur, í myrkra ranni einn hann ſitur.

51. Sá ei hræriſt, hann er nær, ſem hinn er ſefur; höndur mær um hálſinn vefur, honum væra koſsinn géfur.

52. Fús til róſtu á fætur dróſt med firna braki, henni á brjóſt med hnefa þjaki Hrindir þjóſti bólginn maki.

53. Flóda gnáin Glóda má á gólſid falla, hljódar þá med ánaud alla, ódann náir mann vid ſpjalla:

54. „Herrann nádi, hvad þín bráð er „heiptar lundin, var eg smád vid fegins „fundin Frá þér ádur svo ei hrundin."

55. „Þín fordæda! (þad nam ræda þegn= „inn brádi) Þér vid skæda skömm á ládi, „skildi blæda med ódádir.

56. „Þig eg fasta hneppi hast og híngad „sendi, þitt svo lasta lífid endi Og lángsam= „astar kvalir hendi.

57. „Hér skalt búa þjökud þú í þessu „ranni, meinin trú í myrkri spanni, sem „myrdti trú í losta banni."

58. Mærin seigir: „mér þó eigi midlist „gódi, vígra sveigir verka ódi, voru eiginn „þyrmdu jódi"

59. Hann svo tér, og ódur er hid illa ad vinna: „Bölvud veri barn og kvinna Begg= „ja hér skal dögum linna.

60. „Þér skal eingin frelsun feingin fjör „þó linni." Ut hann gengur ad því sinni Og aptur slengir járnhurdinni.

61. Einn forsmá og anaud þjá er ærin vandi (ad því gái öld í landi), utan þá á sönnu standi.

# Þridja Ríma.

1. Ljóða smíðum løgin ný Lundi sunda mána. Nóttin hýðist hafið í, himin skrýðir dagur því.

2. Morgun vindar fríſkir frá Feykja sjúkum ama, drekka yndis anda þá Allar kindir jarðar fá.

3. Fagnar manna þánki því, þorum vér sem snarast, til kvæða anna nú á ný Neista hrannar fyrir Tý.

4. Mér að smíða þennann þátt, því má búast viður, þegna lýður þakkar smátt, þundar hríða vantar slátt.

5. Þeir sem hildar ófkøp ein, una sýnast viður, þegar milda þylja grein, þikir snildin ekki nein.

6. Enn þeſsir skyldu koma á kreik, kífs í ofur hita, sjalfir hildar halda leik, svo hjørtun trild ei yrðu smeik.

7. Þeir hamóða hildar lof, heima í rúmum tóna, ef sæu Odins ræfla rof, raunar bjóða mundi um of.

8. Bræðra að vaða blóð tjarnir, á búkum sjúkum stikla, gledi staður einginn er, um það, maður, trúðu mér.

9. Bein að heyra hálfdaudra Og hildar

trylda saungva, mætti eyra of bjóða, um ekru, dreyra málaða.

10. Heimskir láda eyrun að Omi skjóma saungva Kvæða sladur vígs um vað; vitur maður hræðist það.

11. Því til valdi þessa skrá, þjóð að bjóða kjærri, hygginn aldur hlífa sá, er hátta galdur þyggja á.

---

12. Emilíu ángurs bönd Eina í meinum vefja; myrkrum í við meinin vönd Mána dýa situr strönd.

13. Hún einmana inni var, á sín kné nam falla, og að vana bæn fram bar Bólmey Grana klissja þar.

14. Stynur, grætur, einginn er, Auðar tróðu að svara, utan nætur hrafna hér Heyrir lætin ansa sér.

15. Alla nauð hún nætur bar; næst þá lýsti dagur Skotrað braudi' og vatni var Um veggjar auða smugu þar.

16. Mærin klár, sem misti auð, matast gétur valla, hugar sára svíður nauð, sitt í tárum vætti brauð.

17. Tímar renna uns þar að, átti létta burði, nú um penna og blek hún bað, bystir henni synja um það.

18. Hug þó spanni hrygðin bráð, hún í sínum púngi Saum-nál fann og silki-þráð; svo hún annað tekur ráð.

19. Í handklæði hreint, sem á, hún í raunum sáru Sauma rædur svoddan skrá Sínum skjæða manni þá:

20. „Saklaus er eg, okkar því Eiginn fría niðja." Með klæði fer svo fólk um bý, fleyna verinn tók við því.

21. Grimdar hendi greifinn kann Góða klæðið rífa, og það kvendi úngu hann Aptur senda í pørtum vann.

22. Þá varð andi svanna sár, sútar eitur píndi, hátt stynjandi herdti fár, hún brennandi feldi tár.

23. Feiknir hardar fæðíngar Frúna í einu neyða, kemur garða konan þar Kæru varð til hjúkrunar.

24. Dóttir fæðir dúka Gná Dautans nauðir viður; bægja mæði brjésti frá Barns-ins kvæðin hljóða smá.

25. Ó þú móður innilig Ástin, best að kostum, øllum góðum æfistig, allar þjóðir lofi þig!

26. Hjartans leynum innstu í Eldinn milda glæðir, varnar meinum manna hlý, mæðu einatt fælir ský.

27. Vinnur sótt og veini sláns Væn med þínum krapti, ellum þrótti ædri manns, einka dóttir Skaparans!

28. Emilía ástar sár, ein í rauna kafi, feldi því um blídar brár Vid barnid hlýu gledi tár.

29. Daudans ýfir þrautir þá Þjód, ad leidum bodum; minnstu hlífir, meyu smá Módur ríka brjósti frá.

30. Burtu færa bragnar þá Blída jód-id hennar, brúna skæra bauga Gná Brjósti nærir veiku á.

31. Ut svo rása ranni frá Rekkar þekk-r valla; hlymja ása hvolfin þá, hurdin lása dynur á.

32. Hvør vill mála hennar kvøl, er blaut sig láta ræna? hún vid sálar blódugt bøl A bálkinn skála hrígur føl.

33. Svølun meina þessa þó Þádi klæda Nanna: aungvit hreina hjartad sló Og henni í leynum sýndi fró.

34. Þannig hræda hræfuglar Hjartad bjartrar dúfu, ad hennar æda hreidri þar, hún sem fædu úngum bar.

35. Unga ríka illir skjótt, á þad sjá hún veidur, ekki hlífa illum þrótt, og af lifi taka fljótt.

36. Elskan heita ekki má Ungum þrúngin bjarga Til sín veit hún valla þá, volud leitar flótta á.

37. *Emilia* vakna vid Vann til sinna meina, bølid nýa brjálar frid, brjóstid hlýa ei þolir vid.

38. Anaud gnaudar ógurlig Yfir lífi brúdar, bólgin nauda bøls á stig Bad nú daudann frelsa sig.

39. Hann, sem fleirum hyggur mein, hinn kaldsinnadasti, ei vill heyra hennar vein; harmar reyra merg og bein.

40. Bløskrar mér um bauga Ná Bragar laga tóna, hédan géri fœlast frá; um fleira ber eg tali þá.

41. Greifinn nœr þœr fréttir fá, fljódi jód er borid; baud sér fœra barnid smá Og burtu kœru taka frá.

42. Vopna reynir vistar sá — Vart med bjørtum huga — Burt í leynum barnid þá Bónda einum snaudum hjá.

43. Um þess fadur*) einginn par I ordum þordi skynja, heim í stadnum háa var Hnikar vadal - breununnar.

*) Norrœnt orda lag í stadinn fyrir Fodur.

44. Hugar sára hafdi þrá, hann ei sinr ir mønnum, feldi tár um bleika brá Bísn. fár í lyndi sá.

45. Arin líða þannig þrjú, þrautir bæt: ast eigi; í turni bídur fángin frú, feiknir kvída reyndi sú.

46. Heima Greifinn hljódur er, hollr' i spillir kæti, bitur hreisir harmur sér, hug ar deisist gledin hver.

47. Mág einn sér á mæri snar Mimm úngs Hrammi átti, Barón er, sá bródir va Brúar hvera skímunnar.

48. Hafdi ríkur Hildi sá Hád á blódvøll onum, og heim vikur aptur þá Ameríkv strøndum frá.

49. Fjøgur ár þar hefur hann Hrist hinn bista vigur Hreysti klára hrésid vann heit þar báran æda rann.

50. Unni linna sanda sá, systur kvistur næsta, heima finna hyggur þá Hrundu svinna mági hjá.

51. Gékk ad kynni' í gardinn þann, sen. Greifinn hefur ráda, eingann finnur út. mann, undrast svinnur þetta vann.

52. Lokud finnur hlidin há A hjera vera ljóra, hrópar inni húsid þá, høggin vinn: ur dyrum á.

53. Utúr lítur inni mann Aldur seldan fara; kappinn nýtur kvad á hann, karlinn flýta sporum vann.

54. Barón hreifa hjali fer Heilla kallinn vidur, hvört ad greifinn heima er Hann med leyfi spyr, og tér:

55. Hvörju sætir, ad hér er Audt og daudt í sölum? hvada þrætur hafid þér? hvörnig lætur Greifinn sér?

56. Eda keyra út um grund Yndis standi medur Hjálma Freyr og fridust sprund? flyt, svo heyri mál um stund.

57. Aldinn seggur ansar þá: „erindi þér ef hafid, innan veggja vita má Bopna tveggja munum sjá."

58. Hvatar inní háan sal Hlynur linna bóla, ærid svinnan undrar hal, aungann finna manninn skal.

59. Tóma eina þegninn þar Pannig finnur sali, hvörki svein né hafsólar Hrundu neina lítur snar.

60. Hetju svinnu hnykti vid Húsin finna þanninn, gánga vinnur, gjarn á frid, Greifans inn í herbergid.

61. Hvurr vill leita lukku sér, og láta, ef gæti, vara; opt þó veitist höppin hér, harla breytin tídin er.

# Fjórda Ríma.

1. Medan fredid foldar mid Fanna byrgist fordum, una spuna vefsa vid Vil eg enn, sem fordum.
2. Vefs þó þessi veki ný, víst er føst min hyggja, greinum seinu eingra i Æru kjør ad styggja.
3. Illa spillist ljóda lyst, last ef sést á blodum, nid ef smidar bølid byst Brjótum spjóta hrødum.
4. Hér (þvi ver!) um haudur ma Hádúng ljóda finna, gikkir ekki fordast sá Fleipur sneipu ad spinna.
5. Æru særa', en eigid lán Ata á ljótum vegi, litst mér víst þeir lands forsmán Ljótust heita megi.
6. Manna og svanna samsarir Synda hundar nída; skøpun gapar holla hér Heiti ljót um smida.
7. Dæmin slæmu þróa þrátt, þýda nida brædur, hædnis skjædann hefja þátt, heilla villa rædur.
8. Sér til derrar bolvunar Bragar taugar spinna, Þvi haugadraugar hádúngar, hatur og viti finna.
9. Gafu svisast valla vid Væna ad lána hrekkjum, laslameslan kvæda klid Kveikja pikum þekkum.
10. Ein sú grein, er børnin blind Bjóda i ljóda gildi, mørgum orgu cykur synd A árum fleiri' enn skyldi.
11. Sman þeim slánum orgu á Andlits myndir klædi, svo holla alla sæli frá Fólsleg góla kvædi.
12. Þjódin gód skal þrá-forsmá Þeirra hvurra spýju. Meinlaus grein af þætti þá Þulin skal ad nýu.

---

**13. Barón snar i salnum sér, seima geymir vitur, Greifinn daufur inni er Einn og følur situr.**

**14.** Stóð sem óðast stóli frá Stýrir dýru sverða, mág sinn fræga þekkir þá, þægir fundir verða.

**15.** Nettri rétti hetju hønd, hlíra dýrum fagna; slétta settir faðma bønd Fírar mýra vagna.

**16.** Barón svarið byrjar nú: birtu snort þinn skaða, hvar er marar bála Brú Blíð, hin þjóð lofaða?

**17.** Hvaða nauðir þjaka þér, Þundur mundar ísa Staðir auðir hølda hér Hrygð- ar stygðum lýsa.

**18.** Held eg valdi hagur þinn Hugar drjúgum þúnga; farfa horfinn fríðri kinn Finn eg þinn hinn únga.

**19.** Snaran hara hrjáir þrá, hristir mesta pína; svaraðu hvar nú sjá eg má Systur besta mína?

**20.** Er hin rara dáin drós, svo døprum svip þér leisi? lista kvisti sunnu sjós Svarar þar næst Greifi:

**21.** Síðan, bróðir, saman vér Sátum teitir forðum, margar forgir hafa hér Hrjáð á nauða storðum.

**22.** Hér óvær mig nístir nauð, við neyð- ar loði hlekki, mér er kæra drósin dauð, þó døgum lógi ekki.

23. Viſt hin biſta medur mér Mundi hrundin týna; miſti lyſtug (var því ver,) væra œru ſína.

24. Hefur án efa annan mann Ackhylliſt ſkada=kvendi, ſljódid hljóda í fánga=rann Frá mér því eg ſendi.

25. Þýngjaſt únga Baróns brýr, bráð=um rédi ſpjalla: „nú þér trúad, hlýri hýr, hvataſt get eg valla.

26. Einginn leingur taki trú Tródur vid í bygdum, fyrſt mín ſyſtir næſta nú Nídiſt ſvo á dygdum.

27. Hreina meinad hennar ønd Hef eg æfi lánga, ljóma dróma landa ſtrønd Laſtid veſt mun ſtánga.

28. Hafi kafid sóma ſíd, ſú, ſem trúir dreingur, fjandinn bindi ſljódin vid Faſtar áſtir leingur.

29. Hvad til ſkada víſid vann Vanda bundinn ſtøfum Vita hlýt eg; ſídar ſann Sáttir fátt um ſkrøfum."

30. Hýrar dýrir hér med tal Holl'r fella nidur; fœdu ſnæda ſvo í ſal, ſettill bleitir idur.

31. Sídan vída um ſtóran ſtad Strætin láta farin; bætiſt kæti hnyggum hal, en hinum vina ſkarinn.

32. Barón snaran næstu nótt Nú á hý=
um bedi Dreima eimar hafna hljótt Hildi
milda rédi.

33. Magurleg og visin var, vafinn dauf=
um skrúda, sama fróma svipinn bar Saklaus
dúka Rúda.

34. Høndur bandi um bródur brjóst Brønd=
úngs grundin sala, þykist hnikar hrínga ljóst
heyra mær svo tala:

35 „Saklaus þjakast mjøg eg má Í
„myrkra sterku ranni Hrakin, nakin, heilla,
„frá Hinum væna manni.

36. „Hygajan stygg er vøllt og veik Vid=
„um tídum skjalda; eintóm meiníng marga
„sveik; má eg nú þess gjalda.

37 „Hví mér dyýaid harma þá, hafi' eg
„ei ad søkum? láttu þéttu bøli brá! betur
„leita' ad røkum!"

38. Sídan lídur sjónum frá Sólin bóla
orma; hugurinn logar hetju þá, hætti skjótt
ad dorma.

39. Dagur þegar háa heid Hefur vafid
ljóma, finnur linna Manar meid Mág sinn
hetjan fróma.

40. Talar halur (bragd er byst) Brand
vid mundar klaka: „veit eg hvíta hrínga
„Hrist Hýðist neyd án saka.

41. „Villu illri vafinn þú, væna konu "neydir" Hinn med sinni særdu nú Svörin snörum greidir:

42. „Efa hafa á ei má Ad eg kvad hid rétta Skriptad niptin hrínga há Hefur sjálf um þetta.

43. Heyra eyrum mínum med Mátti eg játníng svanna; þú mátt trúa, þad er skéd," þér eg ber hid sanna.

44. Barón tér, sem hýsir hrygd: „hast þinn lestur endi; hvar þú fer eg lýsi lýgd Last um besta kvendi.

45. Skora þori eg þig á Einvíg reyna skjóma, sökum spaka fría frá Foldu kéldu ljóma.

46. Láttu þétta hjúpa hlíf Holdid, gildur dreingur! þitt eda mitt skal þrjóta líf, þá má sjá hvad gengur.

47. Vid ófrídast fánga slot Fleina reynum sköllin! gerum snarast prætu þrot, þeytum götum völlinn!"

48. Greifinn hreifir ordum ei, ástin bistum dvínar; hinn frá linna fróna Frey Ferdir herdir sínar.

49. Grund med skyndi gyllir*) rann, göt-

*) Hestur.

ur slitur eigi, slotid nýtur, fyrir sann Fyrst á þridja degi.

50. Sól í ból var svana þá Sigin dag-inn þridja; úti litur frægur sá, sem frétta mætti bidja.

51. Svinna finna fýsist þá Fingra spaungu ísa, en einginn dreingja opna má Eda' á stad-inn vísa.

52. Greifinn hefur heiman ad Hestinn besta tekid Skjøld og hildar hrída nad, hlif-um lífid þekid.

53. Kappinn happa keyrir jór, kláriun sporum fylgdi; finna hinn í hug órór Hird-ir korda vildi.

54. G'adur *) trad, svo hitti hinn Hratt á settu ládi; stadnum ad í sama sinn Síd hann rída nádi.

55. Finnast svinnir þeigi þá Pundar mundar skara; stinna sinna' ad morgni má Megnid reyna snara.

56. Greifinn, ofur bøl sem ber, borgar girdíng vidur Keikur reyka úti er Eitthvørt stræti nidur.

57. Pádi ei reidur bed né bord Bjódur

*) Hesturinn.

nødru dala, vid hann madur eingin ord Af því vogar tala.

58. Vera Týrinn vopnaør Var sín kjør ad skoda, heyra nær, ad fótar før Feldann veginn troda.

59. Sólar ála sala ver Sér nú, þar ad kémur, madur leid á móti sér; minnumst þann á fremur.

---

## Fimta Ríma.

1. Stundir lída létt í tídar hafi; ad því rekur eydist hvad, sem af er tekid, sannast þad.

2. Eins er sagan, eins er bragar klibur Sem eg siagast einatt á, ad ending dragast seinast má.

3. Eins er mæda manns og gædi í heimi, allt vill lædast lokum ad; ljóst er, brædur, málid þad.

4. Þú, sem mein og þrautir reyna hlýtur, huggun eina hefur þá, harmur seinast dvína má.

5. Hvad þig þjáir, hitta má um sídir Ending þá, sem einginn flýr; allt því frá oss baki snýr.

6. Þú, sem heldur þig á veldisstóli, heill og audi umvafinn, ekki naudum fráskilinn!

7. Varast hroka! hægt ad lokum skridur Heilsan gód og høppin frid, og hvad þér bjóda náir tid.

8. Eptir skinid skúrin dynur yfir, þér kann, vinur, vekja þrá, vermir hina sólin þá.

9. Því er vandi' á voru standi, brædur! hér vid nemur hvørt eitt sinn, haustid kemur og veturinn.

10. Alt ad brunni einum runnid hefur: skiptast sunna og skúrir ad, skynja kunna flestir þad.

---

11. Greifa móti grettinn fótalág-
ur Hækju njótur hnokinn fer, hempu ljóta og
svarta ber.

12. Róðu kroßi réð að hofða mundu;
sínum hvítu hærum á Háleitt mítur dregur sá.

13. Greifinn þekkir (það hann blekkir eigi)
þennan veiti þrímla lands Það er sveita Prestur
hans.

14. Hetjan biður: „hér þú við mátt nema
Og inna fréttir almennar, okkur rétt til skemtun-
ar."

15. Halnum nær, sem hyggnum tærir
svörum, hökla vinur herðir skrið, hóstar,
stynur og reyniſt við.

16. Sig á stein þar setur reynir skrúða,
kverkar belgir hriglan há, honum svelgist mikið á.

17. Purkar sér nú samt á berum vitum Ljúka
fer upplærðum munn; listin er sú presta kunn.

18. Eg af fréttum eitt hef rétt að segja, ef
herrann frómi hlýðir á, um heims ósómann
tölum þá:

19. „Dygðin eyðist, Djöfull leiði veldur, sem
á skeiði einatt er A gandreiðar flugi hér.

20. Eg er Prestur, æfi lestur fræða, en þó
brestur elli skjól Eins og sést á mínum kjól.

21. Dofnar óðum dugur góðverkanna, á

heitum glódum hreinsunar Hljóta ad sjódast verurnar.

**22.** Trigd er eingin til hjá meingi leingur, aptur geingin Adam þrár Ilsku dreingja veldur frár.

**23.** Auka skada illir stadarbúar, heillum svipta, hvar sem fer, og hætta' ad skripta fyrir mér.

**24.** Sú var eingin synd, er mengi þjádi, ad af-lausn fengi ei mér hjá; eg var leingi gódur þá.

**25.** Í skripta sal þá sat eg valinn ádur, skildíng stundum skærum þar Skotid í mund á kalli var.

**26.** Eg er ad reyka enn med veika burdi, svo eg skada freisi frá Fortapada saudi þá.

**27.** Eg vil ráda ydar nád, minn Herra! kom og skriptast hjá mér hér," hollust gipta þvílík er.

**28.** Aptur greifinn gegnir hreifum karli, „síst þú leifir lasti hér, og lygum deyfir hlustir mér

**29.** Skrattinn hjá þér skriptir tjái sínar, kallinn grái, íllsku ær! eg er frá ad nota þær.

**30.** Klerki frá mig kaupa þrái feginn, þad svo valdi þegi bid, þessu gjaldi taktu vid."

31. Hampar sjóði hirðir glóða loga Miklum handa milli þá, muísu Brandi rèði fá.

32. Kveikti sjóður suðu á glóðum hvarma, handa óður honum því Helti Skjóður sínar í.

33. Hetjan segir honum veginn snauta, allann beygir enda sinn og Amen segir Presturinn.

34. Um hans daga ekki er saga meiri, hvursu leingi leika má Linna eingi sníktu hjá.

35. Hins vér getum: hafs úr fleti unna Ris, en hetjur harðlyndar Hropta hvetja glæðurnar.

36. Á velli sléttum vatns hjá léttum straumi Mældum setum hasla hólm hugar hvetur bræðin ólm.

37. Hestum síðan saman ríða báðir, fremur þýða eingin orð, auka stríð um Hildar borð.

38. Vóru báðir vanir gráði hlífa, skapi bráðir ærið í, einvíg háðist mesta því.

39. Leiptrar óðum létt í slóðum vala, sára linna loginn skær, líkt og tinna neista slær.

40. Dreingir liðu leingi niðinn hlífa, veagi iðar undir þar, eingin friðar stundin var.

41. Hestar varmir valda farmi sínum, loga hvarmi eldar á, eta af harmi mélin grá.

42. Barón reynir byslur steinur veika, brýndan heini hlífa ljá, hefur einatt flugi á.

43. Hann er ær, sem elding slær að foldu;

Greifinn fær við geira fár, gegnum lærið mik-
ið sár.

44. Grundu ærið undin hvær í blóði, stundi
hæru þjótur þá, þundar skæru fljótur brá.

45. Hinum skaðar herðarblað með armi;
undin baðar blóði láð, beittum naða eggjum fláð.

46. Ei að síður ólmir stríða báðir, þótt að
svíði sárin flá; svona líður daginn á.

47. Blóðrás heit af beggja feitu holdi Og
ógna þreyta að auka stríð A þá leita fer um síð.

48. Hlífar eru' að holdi beru flaðar, sárin
smáu þrútna þá, þeim ófá sem streyma á.

49. Hlýtur manna máttur þannig dvína,
hvør við annan eigi kann, eggja spanna flug-
drekann.

50. Setjast niður, sára iður buna; stadnum
liðið stedjar frá, stála viðum hjúkrað fá.

51. Heim í vagni veika bragna keyrði, flokk-
ur granna úr sára sjó Í salinn þann, hvar
Greifinn bjó.

52. Báðir liggja og lækníng þyggja sára,
enn þó hyggja hefndir á, heilsu trygga þegar fá.

53. Søgn um þetta sveitir frétta víða, þykir
kvíða efni enn, ef aptur stríða skyldu menn.

54. Prestur sá, er sørfa gná réð skripta, hér
af líka heyra fær, hugar sýki meira slær.

55. Vill ei lídi voda strídid harda Saklaust fljód og sveitinn stinn, sída gódi Presturinn.

56. Prestar eru eins og vér í þessu, sumir þjóda sefa stríd, sumir bjóda fals og níd.

57. Þessi var, sem virdíng bar med hærum, ekkert líkur hinum hrók, er harma sýki Greifa jók.

58. Hann þá sér, ad seggir eru heilir Og vilja þreyta einvíg enn, ad þeim leitar klerkur senn.

59. Kemur inn og ordin svinnu vekur:" eg samferda óska vil Ykkur verda hólmsins til.

60. Eg mun fréttir ydur nettar þylja, styttist leidin þá med því, þýdist reidin skapi í.

61. Sættist þér, ef svo til bera mætti; um ferdir því nú er mér annt, ad Emilíu þekki grant.

62. Pundar plátu þad svo láta vera: þú mátt fara veg sem vilt, verdur svarid beggja stilt.

63. Svo á hesta hetjur bestar stíga, einnig Prestur aldin þar Ungum fest á þófa mar.

64. Bid eg flóda birtu rjódum frídu Fylgi góda-farsældin, fram um flód, og Prestur minn!

---

# Sjøtta Ríma.

1. Ef eg leidi yfir mig, ónád frídra meya, og þær reidar sýna sig, sæmra væri ad þegja.

2. Híngað vitja hvörgi Fljóð, hugurinn því er sjúkur; eg má sitja einn við ljóð, eins og gamall múkur.

3. Því mun glósa þessi hér, þunna kosti geyma; strokin Rósa únga er En Iðunn finnst ei heima.

4. Ekrur mjúkar eðalsteins Ærnum valda pínum; þær ef strjúka allar eins Ut úr greipum mínum.

5. Angrið dynur yfir brá, eyðist gleðin væna; streingi lína ljóða á Legsi eg því tik bæna.

6. O þér hjartans ununar = efni manna sona, andlits bjartar ástirnar, allir til sem vona!

7. Eg skal gráta og iðrun hér Allra brota gera; æ mig látið ekki þér, yfirgefinn vera.

8. I minar haldið hendur þér Hafið til þess leingi, nú ef aldrei optar hér Yðar náð eg feingi.

9. Veit eg pika þánka þin', þar af lið eg bagann: þér ei likar mærðin min, og máské ekki sagan.

10. Síst eg þreyta þrætni skal, þótt að nú sé smáður; satt eg veit er svanna tal, saung eg betur áður.

11. En hvað snertir efnið hér, að ef meyar finna, ekki er verðt þið eignið mér Uppátæki hinna.

12. Fyrr enn þegi þessi skrá, þýður hópur svanna! eg skal segja ykkur frá Ölu hinu sanna.

13. Margan sljóðum orkti eg óð, að því hyggja megið; verið þið góðar, vifin rjóð, við hann Sigga greyið!

---

14. Knúðir skeiða skinfaxar, skeifum jørðu spora, harla reiðar hetjurnar, á hólminn ríða þora.

15. Strætin rjúka, glymur grjót, gugnar búkur jarðar, neistar strjúka fyrir fót Fi:s ósjúka gjarðar.

**16.** Moldnm veifa melarnir, mínkar vøll-um fridur, jórar þreita, um varga ver, vell-ur, í fjøllum nidur.

**17.** Fadminn rífur fjørgýnar Fáka stinn-ur kraptur, uns ad hlífa Hlórrídar, hólminn finna aptur.

**18.** Sig til víga vopna þá, vid ei færir hika, slicrum síga sverdinn frá, Sólar skjær þau blika.

**19.** Klerkur þángad koma vann, kífs vill ædi týna, bidur spánga hlini hann, hlýda á rædu sína.

**20.** „Fyrr enn heyid Hildar þrá, hlýdid fréttum nýu, eg er sá sem segja má, satt um Emilíu.

**21.** Henni skriptad hef eg á Happa-lausum degi, armbands niptar ordum frá Er nú rád eg segi."

**22.** Greifinn hvesti svør um sinn Samt med beiskum huga: „síst skal presta mælgin minn Mega skilníng buga.

**23.** Viltu, grái bóka bør, beita vid mig ordum Um játníng þá og svanna svør, sem hún hafdi fordum.

**24.** Sagdi eigi fljódid frá (Fer eg síst med sladur) Ad sér legid inni hjá Ungur hefdi madur?

25. Afbragðs fríður úngur var, ástir kvenna veiddi; á kvøldum síð vor þerna þar Prælinn burtu leiddi.

26. Hóf hún eigi um það tal, (Ofast mér þau sárin), að inní leigið svefna sal Sínum hafi dárinn?

27. Ofurleingi ásta þyrst Auðs var grundin smánuð; hélt hún dreing í huldri vist Hálfann annann mánuð.

28. Hlýð nú, grái gikkur, mér! greina til þig eggja! seigðu frá, ef saman ber Søgunni okkar beggja!

29. Ef þú talar ekki satt, efni vara nauða, á þér skal eg hefna hratt, heiptarlegum dauða."

30. Klerkur svarar: satt skal eg Segja ykkur báðum Pú hefur farið villann veg, og vondum þjónað ráðum.

31. Pú í villu vafinn ert, vil eg nú hún linni; þú hefur illa, Greifi, gert Góðri konu þinni.

32. Svo skal bjóða sanninn þér, sé eg þørfin krefur: þannig fljóðið fyrir mér Fordum skriptað hefur.

33. Ydar finna fóstur vann Fyrri um þá daga, vidur linna, valdemann; víkur þar að saga.

34. Ydar kvinna þernu þá, þjónkun lét sér veita, úngur hinn vid audar ná Ásta mundi leita.

35. Bauga Týr, og þernan þá Próa trygdir saman; girndin býr í brjósti há, sem bádum veitir gaman.

36. Inní Frúar ydar sal Amors reyndu gædi, áttu hjúin ástar tal Einatt saman bædi.

37. Frúin lyndi best sem bar, brátt þó skynja nædi; kærleiks syndir saurugar Saman æfdu bædi.

38. Vildi sneidast vanda þann, var nú skjólid þrotid. Burtu reid hún reka vann Rekk og píkubrotid.

39. Ottast hreina audar gná Ydar mundi reidi, því ei neinum huldi frá, þernu og bauga meidi.

40. Sóminn kvenna svars mig bad, svo eg allt til færi, hvört ad henni þá um þad Þögnin syndlaus væri.

41. Þótt ad dreingur kvennmanns kind, kysti utan leyfi, þad var einginn ástar synd, ydar konu, Greifi!

42. Hægt mér var ad hugga sprund Og hennar máli sinna, heim svo fara létt í lund Ládin mundi tvinna.

43. Þú komst leynt í saungva sal Síst

med huga spøkum Heldur seint, og hennar tal Heyrdir ei med røkum.

44. Eptir meiníng ei er ráð Ógrundaðri flana, og dygða hreina linda láð Leiða nærri bana."

45. Enda fer svo orðin klók, aldin høkla viður; tekur sér úr barmi bók, best sem málið stiður.

46. Letrin fróðu lesa þá Lundar stjørnu úðar *); þannig stóðu á skírri skrá, skripta málin brúðar.

47. Greifi minnast vitur vann Vetrum fyrir þremur, á þegninn hinn, sem þernu fann; þetta saman kémur.

48. Sitt við henni átti jóð, allt svo heima standi, síðan spennir fleina fljóð, festi sér með bandi.

49. Hugur grætist Greifa þá, gagnar ei að þræta Barón kætist, sem nú sá Saklaust fljóðið mæta.

50. Fjølnis hami fleygja þá, fella niður korða, gánga saman ginnu á Greifinn brá til orða:

51. „Heptum, bróðir, hjørfa þrá, hvað

*) Fyrir uðar, unnar, vatns.

sem eptir kemur; sorgin óða mig nú má Meiða sverði fremur.

52. Ef viltu bana veita mér, verðskuld- að eg segi; fyrir hana, er bölið ber, best ser nú eg deyi.

53. Stýttu manni þánka þrá, þennann eptir vanda Mun ei hrannar glóða gná Gánga mér til handa."

54. Barón ser með svoddan svör: „sorga léttum kífi Ekki ber eg að þér hjör Eða svipti lífi.

55. Finnum heiða bráins bil, bjóðum ræðu fína; hún mun leiðast láta til, og lukkan aptur skína."

56. „Eg það grátin efa ser — ansar kempan móða — að forláti marga mér Meinsemd klæða tróða.

57. Samt eg gjeri sekur hér Sætu finna voga, ef að ser þú meður mér, meið- ur græðis loga!"

58. Aptur Barón blíður kvað: „bætir skaðann fleira, þú mátt fara fljótt á stað, sjasa um það ei meira."

59. Heima liðið hrópar á Hristir fræg- ur skíða, hestum býður nú að ná Nægum til að ríða.

60. Hvør sem fyrst kann hestum ná,

Hafnar njótur funa, þíng úr kistum þiggja má, þá til gódra muna.

61. Fum á stinnu fólki vard, flýtist vana meira; brádum inní Greifans gard Gulltoppana keyra.

62. Sødlar sleingjast essin á, eins og dreingur bidur; braguar sleingja þadan þá, þrumdi eingid vidur.

63. Líkt og fífa fevkist þar Fyrir vindi snørum, moldu rífa málfetar Máttar beittum førum.

64. Sødla reinar svitna fá, svædid kvein hid auda; jarka einatt járninn á Jardar beinum gnauda.

65. Fyrri stinnir fetmódar, ferd ei sinni hamla Stordar linna stafir þar Stadinn finna gamla.

66. Skal nú gjæfan gegna mér og gefa hæfid auga Til ad svæfa harma hér Himin glæfu bauga.

---

## Sjöunda Ríma.

1. Þú skalt vaka enn sofna síd, svanur spakur Grana! þú skalt kvaka ljódin Lýd Láda klaka, ad vana.

2. Þú skalt treina tóna spil, trygdir hreinar stunda; þú skalt reyna' ad blidka Bil Vestu steina munda.

3. Oskum þjódin Isa lands, er ad hljóda prýdi, stilli ljóda streingja dans, og stefjum fródum hlýdi.

4. Þennan enda þáttinn fer; þann mig senda tidir, valinkénndum vini hér Vísna lendi smidi.

5. Ferda stirda fári skrá; fýsumst virdi hana Grund=arfirdi frægur á Freyrinn byrdar Grana.

6. Kaupmanns' þjónar sýslun sá, fést um frónid metinn, happa tjóni horfinn frá Helgi, Jóni gétinn.

7. Þiggnú brodur þulinn minn! þagnar mód sá létti, Frændi gódur! þann eg þinn Þátt í ljód nú setti.

8. Hugar týnist harmur þinn Af hródrar línu svari! hér þó dvíni háttur minn, heillir þínar vari!

9. Þó eg mundi mælast til Og manndóms lund ei efa, muntu fundid mærdar spil Med þér sprundum géfa.

10. Glossa flóda Þúndi þá Þessar bjódum stekur; sídan þjódin þylja má Þáttar ljód um vekur.

---

11. Mál er finna myrkra ból, medur kinnum følum, þar sem linna sala Sól Situr inni' í kvølum.

12. Um þá stund ad bænum bar Bauga lunda prúda; lá í blundi léttum þar Ljóma funda Rúda.

13. O, hvad blundur aumstaddan Ástar=mundum vefur! þad er undur, hvørnig hann Heilla stundir gefur!

14. Þann sem meinin mestu hrjá, medan reynir voku, hann í einu hrindir frá Hugar meini løku.

15. Þeim sem snaudur vakinn var, vafinn

nauða hríðum, honum auð og bjargir bar Barmi dauða tíðum.

**16.** Fángi sá í fjötrum lá Og fjörtjón á að líða, blundi dáum brosir hjá, byrgir þrá og kvíða.

**17.** Veit að pína voldugan, vilji' hann sýna hrekki, svo á dýnu hafi hann Heillir sínar ekki.

**18.** Brjóstið hita og hrolli slær Heldur bitulega, búkinn svita svölum þvær, sáran flytur trega.

**19.** Margt um blundinn mætti skrá, enn mín er lund að vitja Inn um stund þar lengi lá Linna Grundin sitja.

**20.** Vaknað stynur vífið þá, veit ei skyn til frétta; portum hrynur hurðin frá, hana kynjar þetta.

**21.** Ekkert gerir gruna drós, gráti er svo kvalin, nú hún sér að líður ljós Létt um beran salinn.

**22.** Heyrir strénga fóta far Frúin áng- ur = þjáða; tveir inngánga traustir þar Týr- ar hánga láða.

23. Einn sér fleygir fletum þá, fætur meyar vldur; veldur tregi mest, hann má, máls ei hneigja kvidur.

24. Hinn nam fljóði sadminn í Framm sem óðast bera; hún sinn góða þekkir því Pennan bróður vera.

25. Hinn vid fætur hennar lá, hugar grætir pína,
mann sinn gætin þekkir þá Þrúdur glætu Rína.

26. Hvorr vill mala hér, sem bar, og hug forsjálum
skoda, heitar sálar hræringar Hafnar Nálar roda.

27. Fadmar blidan bródur þá Bauga hlidin hreisa;
hetjan þýdir henni frá Hugar stridi Greifa.

28. Hnigur blíd i huga þá (Hjarta prýdin stydur)
Gullhrings Fridur gólfid á Greifans sídu vidur.

29. Kysti landa linna Hár Lindin banda vitra, sam-
gn blandast beggja tár, býlin andar titra.

30. Greifinn tjádi þrútinn þá Pad med báda sver-
um: þínum nádum er eg á, ein þú rádir kjørum:

31. Þér til meina mest eg vann, minnst sér leyna
stygdir, bauga reyn, sem bestar fann Blómga einatt trygdir.

32. Því mig vefur harmur hér; hugar efar pína,
ad tilgefid gétir mér Og gremju sefad mína.

33. Eg vil bæta allt sem má Ydur, sætan hlýa, ef
forlætur þúnga frá Þruma glætu dya!

34. Kossar stansa kærleiks mál Kólgu glansa Hild-
ar; bædi hans og hennar sál Hræring sansa mildar.

35. Í fadmløgum laungum þar Lund má fegur hlýna,
ljóma ogur Ekrunnar Ama slog svo dvína.

36. Ut svo gánga visid varn Vidum spánga medur,
þar sem lángar þrautir sann Þrotid ángur gledur.

37. Ur hyst tylgdust hvurgi sein (Hugar milda sárin),
baugs þar Hildur inni ein Eptir skildi tárin.

38. Bleik var svinna bauga Fold, bels þá inni slepti;
burt var kinna blóm og hold, bein og stinnid eptir.

39. Þegar kémust þaden frá Þundar rému voda,
drésar fróma' ei dugir brá Dagsins ljóma adskoda.

40. Bord á fæda borin var, best sem gæd lagar;
Hildur klæda hressist þar, hlýna mædu dagar.

41. Veitist ödum vinið þjóð, veldur fljóðið hvíta-veitsla góð í sinnum stóð Staupa flóð má nýta.

42. Greifa-innan eptir það Ármvin sinn hinn blíða Um að finna börn sín bað Og bæta sinni kvíða.

43. Komu bæði börnin þráð, blóma klæðum hrósa, fasi þau næði sæðma Láð, segur glæðu ósa.

44. Greifans kvíði hardnar hér, hjalið smíða náði: „barnið, síðar borið þér, bols eg stríði hrjáði.

45. Við barnið mæta hjó eg kaldt, brenduugs sæta Gerdur! þú forlætur allt og allt, allt þér bæta verdur."

46. Meidma Freya mælir blídt: „má þig ei um saka, síðar meyu hjúkrar blýtt, handar fleygir klaka."

47. Hérnæst ríða heim um slóð, hópur friður vildi; Greifinn býður þannig þjóð, þá við lýð hann skildi:

48. „Fánga risi súlan sal, sólkið stisið niður." Aptur visið veknr tal, og verin hlífa' biður:

49. „Láttu standa leiðan rann, linna Brandur haga! minn skal anda minna hann, á margskyns handa daga.

50. Hodda sinnir, hjá sem fer, harms til finni sjóna: standi innið óbreytt hér Í okkar minning hjóna.

51. Bragnar játi' og þekki þá Þennan máta sæma, eptir gátum einum má Eingan láta dæma."

52. Innið leiða eptir slóð, eins og beiðir svanni; heim svo reið um lánga lóð Linda Heið med manni.

53. Alla daga unntust vel, öllum baga rúin; þau nam draga hédan hel. Heitir saga búin.

54. Vora dóma vissu á Viljum fróma sesta; okkar tóma meining má Margopt sóma lesta.

55. Þótt að græti þrautir framt Og þrjóti kæti svarið, dygðin mæta sigrar samt Svo hefur ætíð farið.

